# Acta Yfirréttarins
á
# Íslandi,
fyrir árin 1768=1772.






Leirárgørdum vid Leirá, 1801.
Prentud á kostnad Sekretéra B. Stephensens,
af Factóri og Bókþryckjara Schagfjord.



# Annó 1768, þann 20ta Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadurinn í Snæfellsness-sýslu J. Arnason, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 18da Júlí þ. á., med hvörri innstefndur er manndráparinn Jón Haldórsson úr nefndri Sýslu, samt allir málsins vidkomendur; stefnan upplesin og merkud lit. A. Sømuleidis framlagdi Sýslumadurinn Hjerads og Løgþingis Prófessa og Dóma af 17da Sept. 1766, sem dæma nefndann Jón Haldórsson frá lífinu, fyrir framid mord á Jóni Jónssyni, eptir framkomnum vitnum og egin medkenníngu; Prófessarnir upplesnir og markadir lit. B. Enn þá framlagdi Sýslumadur J. Arnason annann þíngs-akt, eptir Amtmannsins skipun gjørdann þann 22ann Júní þ. á., hvar

 í skýr-



í stórbrotamannsins Jóns Haldórssonar undanfarid líferni er ransakad í Hjeradi; lesinn og markadur lit. E. Delinqventinn var af Yfir-rettinum adspurdur: hvørt hann medkenndi þad sama, sem undangengnir Prófess-ar herma, ussnil.: ad hann hasi í hel stúngid Jón heit-inn Jónsson? svarar eldúngis óneyddur: já! framar adspurdur: hvørt sá af honum deyddi Jón hafi gesid nockra orsøk þar til? svarar: nei, enga! enn þá ad-spurdur: hvørt hann hafi nockud ser til afbøtunar eda forsvars? svarar: nei! Sýslumadurinn P. Axelsson, sem hans tilskickadur Talsmadur, var adspurdur: hvørt hann hefdi nockud til Delinqventsins forsvars ad fram-færa í þessari manndráps-søk? svarar: ad hann refereri sig til Delinqventsins Talsmanna ádur framfærdra af-batana fyrir Hjerads- og Løgþíngis-rettum, og uppá-stendur því, ad Løgþíngis dómurinn módereríst. Løg-madurinn, svo vel sem Hjerads-dómarinn uppástanda: ad þeirra afsøgdu dómar verdi af Yfir-rettinum stad-festir. Meira framfærdu ecki Partarnir undir endileg-ann dóm, er þannig var af Yfir-rettinum afsagdur:

Jafnvel þó ecki sé sannad, ad Jón Hald-órsson hafi, þann 2ann Maji 1766, í Rifs veidistodu, med upplogdu rádi í hel stúngid Jón Jónsson, svo hann kunni þar fyrir sem grófur mordíngi straffast; þá er þad þó fullsannad, og af sjálfum Illvirkjanum, fyrir øllum landsins Rettum, játad, ad hann, án allrar gefinnar or-sakar af enum deydda Jóni Jónssyni, hafi hann med

med knífi í gégnum vinstri síduna til dauds stúngid; dæmist því rétt:

Sá yfir mann-dráparanum Jóni Haldórssyni, þann 17da Sept. 1766, afsagdi Extra-løgþíngis dómur, er af Yfir-réttinum fullkomlega stadfestur.

*Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

S. Sølvason. J. Olafsson.
Th. Magnússon. M. Kétilsson.
H. Jakobsson. G. Runólfsson.
L. Gudmundsson. B. Sigurdsson.
J. Jakobsson. V. Jónsson.
A. Jónsson. P. Jónsson.

## Num. II.

Sama fyrirmiddag mætti í Yfir-rettinum Løgrettumadurinn Jón Þorgeirsson, vegna fyrrum konstitúerads Sýslumanns í Vadla-sýslu V. Schevings, og framlagdi Undirrettar Próséss med uppáteiknadri Yfir-rettar stefnu, í hórdóms-sök Ingunnar Sigurdardóttur af nefndri sýslu. Eptir stefnunni mætir Løgmadurinn S. Sølvason, til ad forsvara sinn afsagda Extra-løgþíngis dóm yfir Delinqventinnen, þann 9da Septembr. 1767, med hverjum þessi Ingun Sigurdardóttir er

dæmd ad hafa forbrotid lífid, fyrir framid þridja hór-dóms brot; Hjerads og Løgþingis Prófessarnir, ásamt Yfir-rettar stefnunni, sem allt er annecteret, uppleſid og markad lit. A. Delinqventindens tilskickadi Talsmad-ur, Sýslumadur P. Axelson, framlagdi løglega sønnud forføll hennar ad geta mætt i Yfir-rettinum, sekum uppá-fallinna veikinda; Dókúmentid leſid og markad lit. B. Løgmadur S. Sølvason uppástendur sinn dóm stad-festann, hid sama gjørir og Løgrettumadurinn Jón Þor-geirsson vegna Sýslumanns v. Schevings. Tals-madurinn þarámóti meinar: ad Ingun Sigurdardótt, ir kunni ecki hardara straffast, enn med fárra ára erf-idi í Íslands Tukthúsi. Meira qváduſt Partarnir ecki hafa fram ad færa; hvørs vegna Yfir-rettariñs Alykt-an var þannig afsøgd:

Þar í Hérads Prófessinum framkoma engar sannanir, hvørt Ingun Sigurd-ardóttir hafi verid gipt eda ógipt, þá hún vard opinber ad tveimur símum fyrstu barn-eignum; ecki heldur ad madur heñar, Pét-ur Gunnarsson, hafi sett henni fjærvist-ir, eptir hennar framburdi, í full 10 ár, ád-ur enn hún átti þad 3ja barnid; hún þar hjá fyrir nærverandi tid svo heilsuveik, ad hvørki kann til Tukthússins ad dæmast né flytjast edur á lífinu ad straffast, um hvørt straff þó falla diversa Vota í Yfir-rettinum, svo hann álitur

álitur naudsynlegt, ad gjørd sé allraundir-gefnust fyrispurn: hvørt lidug persóna, er barn á med egingiptri, skuli eins straffast og hin gipta, þar landsløgin í þessu tilfelli séu ecki svo augljós sem vera þyrfti? því uppsetur Yfir-rétturinn ad leggja hér á dóms atqvædi til næsta árs 1769, þá allra-undirgéfnast væntist ad konúngl. allramild-asti úrskurdur hér um, verdi til landsins inn-kominn, og þar hjá vissari ávísan fengin um saka-persónunnar heilsufar. A medan skal hún vera í forsvaranlegu vardhaldi Sýslu-mannsins í Vødlu Sýslu, á Tukthúss-kassans kostnad, þá Sýslumadurinn skal og skyldugur hid náqvæmasta ad eptirgrenslast bædi um hennar barneignar-brot, og eins um þær henni, af ektamanninum, settu fjær-vistir; hafa því allir málsins vidkomendur hér ad mæta næstkomandi ár, þá endilegur dómur, eptir sakarinnar fyrirfinnandi ásig-komulagi, verdur afsagdur. Actum ut supra.

O. Stephánsson.

B. Markússon. J. Olafsson.
Th. Magnússon. M. Kétilsson.
H. Jakobsson. G. Runólfsson.
L. Gudmundsson. J. Jakobsson.

V. Jónsson. A. Jónsson.
O. Stephánsson. P. Jónsson.

## Num. III.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum adjungeret Sýslumadur í Þíngeyjar-sýslu, V. Jónsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, med hverri Sigrídur Jónsdóttir af sømu Sýslu, ásamt Yfir- og Undir-dómara í málinu eru stefnd ad mæta í Yfir-rettinum, serhvørt eptir því, sem honum kann vidkoma; stefnunni vóru annekteradir þeir gengnu Hjerads og Løgþíngis dómar, hvørr sídarnefndi tilfinnur hana ad erfida 3 ár í Íslands Tukthúsi, fyrir 2 hennar hórdóms-brot og annad lausløti; upplesid og markad lit. A. Saka-persónan af Rèttinum yfirheyrd, játar sig fædt hafa 2 børn í hórdómi fram hjá manni sínum; hafi blotid ad þjóna af sér sekt hjá Sýslumanninum í Vadla Sýslu, og þess vegna ecki getad uppihaldid ser hjá manni sínum, hafi einnig opinberlega afleyst verid eptir þessar barneignir, fyrir samrædi ser eignad med ennum seinna barnsfødur sínum, fyrir þá sídari barneignina, er hún þó aldrei medgengid hafi, heldur einúngis medgengid, ad hún hafi sínum seinni barnsfødur kunnug verid, ádur enn þad sídara brot opinberadist. Talsmadur hennar uppástendur: ad hennar sídara barneignar-brot egi álítast sem fridlulist, þar hún ecki hafi verid hjá ektamanni sínum

þá brotið tilfiell. Lögmaður S. Sölvason og Sýslumaður v. Jónsson uppástanda dóma sína staðfesta. Meira sögðust Partarnar ecki hafa að framfæra, var því í málinu svolátandi dómur af Yfir-rettinum afsagður:

Sigríður Jónsdóttir, sem hefir opinber orðið að hórdóms barneignarbroti í annað sinn, með tveimur ógiptum karlmanns persónum, á fyrir sitt seinna brot að betala tvøfalda hórdóms sekt til viðkomandi Sýslumanns, missa húðina og rýma Þingeyjar Sýslu; er svo þeim afsøgðu Løgþingis og Héraðs dómum í málinu af Yfir-réttinum fráfallið, og þeir hér með upphafðir.

*Actum ut supra.*

Ó. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | J. Olafsson. |
| Th. Magnússon. | M. Kétilsson. |
| H. Jakobsson. | G. Runólfsson. |
| L. Gudmundsson. | B. Sigurdsson. |
| J. Jakobsson. | A. Jónsson. |
| O. Stephánsson. | P. Jónsson. |

## Num. IV.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Løgrettumadurinn Jon Þorgeirsson, vegna Klausturhaldar-



ans Sigurdar Olafssonar, eptir í Rettinn próduser-adri Fullmakt, og framleggur Hierads- og Løgþingis-rettar Prófess, samt Yfir-rettar stefnu í dulsmáls sök Sigurdar Valdasonar og Geirlaugar Þorsteinsdóttur af aust-ur Skaptafells Sýslu; hvorttveggja var lesid og mark-ad lit. A. Eptir stefnunni mæta saka-persónurnar, og þeirra tilskickadi Talsmadur, Sýslumadur P. Axelsson, samt Løgmadur B. Markússon, til ad forsvara sinn, þann 12ta húius, afsagda Løgþingis dóm, med hvor-jum bádar þessar saka-persónur eru, fyrir þeirra framid dulsmál, dæmdar frá lífinu. Løgmadur B. Markús-son, og Løgrettumadur Jón Þorgeirsson, síns Prin-sipals vegna, uppástanda: ad þeirra dómar fyrir Hier-ads og Løgþingis-retti verdi stadfestir. Hier. uppá af-sagdi Yfir-retturinn svolátandi Alyktun:

Med því Yfir-rétturinn finnur enn þá vanta naudsynlega áavísun og upplýsingu um saka-persónanna aldur þegar þau féllu í þetta dulsmál, samt um þeirra líf og lifn-ad fyrr og sídar, sem Tilskipanin af 21ta Maji 1751 býdur, ad hid allra náqvæmasta sé eptirgrenslast; þeirra skírnar-sedlar fylgja heldur ecki Prófessinum, edur Attest vid-komandi Prests um þeirra aldur; vitni, sem þau hafa skírskotad til, eru ecki heldur af-heyrd í Hèradi, nè þeim, eptir bón þeirra,

Tals-

Talsmadur settur, þá vitnaleidsla i þeirra dulsmáls søk framfór fyrir Rètti Klausturhaldarans Sigurdar Olafssonar; þá tilheldur Yfir-rètturinn honum ásamt þeim tilstickada Aktóri, Þorsteini Bjarnasyni, løgformlega ad undirsækja og afbevísa allt þetta, þá Settidómarinn skal og skyldugur ad setja saka-persónunum Talsmann, er annadhvørt forsvari þau, edur framfæri allt hvad hann edur þau meina þeim til málbóta þéna kynni, hvørt heldur vera mætti í tilliti til þeirra allareidu færdir vitna framburdar eda annars í sjálfri adalsøkinni, hvad allt byrjar ad framleggja fyrir landsins nærsithaldandi Yfir-rétt, þá saka-persónurnar og allir málsins vidkomendur hafa hér ad mæta. Á medan lætur Yfirrètturinn bída, ad dæma yfir þeim afsøgdu Hérads- og Løgþíngis-dómum í þessu máli.

Actum ut supra.

D. Stephánsson.

S. Sølvason. J. Olafsson.
Th. Magnússon. M. Kétilsson.
H. Jakobsson. G. Runólfsson.
L. Gudmundsson. B. Sigurdsson.
B. Jónsson. A. Jónsson.
O. Stephánsson. P. Jónsson.

Annó 1769, þann 18da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadurinn G. Runólfsson, sem framlagdi Yfir-rettar stefnu af 17da Maji þ. á., med hvørri innstefnast: 1.) Løgmadur B. Markússon, ad forsvara sinn Extra-løgþingis dóm og Interlócútorium, affagt í einu máli, milli Krigsraadens og Sýslumannsins, rísandi út af Hólmsins hondlun, og einum af Sýslumanninum affsgdum dómi þann 10da Aug. 1768. 2.) Krigsraaden, ad forsvara sína afgefningu og máls-sókn í skinni. 3.) Sýslumadur J. Eggertsson, sem vidkomandi sakarinnar, sín egin og Hólmsins Districtis Innbyggiara vegna, ad svara til ferhvørs er honum eda þeim kynni vidkoma; stefnan lesin og merkud lit. A. Þarnærst var framlagdur Extra-løgþingis Próses og dómur, genginn ad Reykjavík þann 4da og 5ta Nóvembr. 1768, med hvørjum Sýslumadurinn G. Runólfsson, fyrir of hastarlega affagdann Hjeráds-dóm í málinu, er tildæmdur ad betala

Krigsraad Gudmundsen 12 rdli. Crón. i málskostnad, og 1 rdl. til Jústíts-kassans; Prócessinn lesinn og markadur lit. B. Sýslumadur G. Runólfsson framleggur tvö innlegg af dags dató, í hvörjum hann giörir Exseptión móti ofnaumum stefnu-fresti til Extra-løgþíngisins, og óendilegum atriduin í dómi Løgmannsins, sem innleggin framar sýna; lesin og mørkud lit. C. og D. Einnig framlagdi hann Extrakt af sínum Hjerads Prótókoll, med hvørju hann gottgjørir, ad hann hafi viljad halda þíng og Rett ad Reykjavík þann 27da Janúarí nærstlidna, og antaka Krigsraadens paaberaabede forsvar í þessu høndlunar máli, er hann hafi ecki þyggja viljad; Extraktid lesid og markad lit. E. Løgmadur B. Markússon framleggur einninn 2 innlegg af dags dató, med hvørjum hann deels vill veikja Sýslumannsins Exseptión mót þeim ákjærda ofnauma stefnufresti, deels forsvara sínar Dómara adgjørdir fyrir Extra-løgþíngis-rettinum; þau lesin og mørkud lit. F. og G. Krigsraaden ljet, fyrir son sinn P. Sørøe, er mætti í Rettinnum, framleggja innlegg af 15da hújus, sinni Aktión fyrir Extra-løgþíngis-rettinum til styrkíngar, en áfellis Sýslumannsins dómi; þad lesid og markad lit. H. Enn þá framlagdi Sýslumadur G. Runólfsson innlegg af dags dató, í hvørju hann innstillir til Yfir-rettarins Betænkning og Velbehag, hvört Krigsraaden eigi ecki ad tilhaldast ad framkoma med þad forsvar, er hann hafi

hafa Þykist í þessu máli, og tilbýdur sig þad, sem dóm-
ari, ad antaka; þad lesid og markad lit. J. Ad sídustu
framlagdi Sýslumadur J. Eggertsson innlegg af 17
Húius, í hvǫrju hann átelur óendilegheit í dómi Lǫg-
mannsins, og uppástendur, ad dómurinn undirkennist,
og Lǫgmadurinn, fyrir þvílíkt Forhold, múlkterist til
sín|og Borgarfjardar Sýslu Innbyggjara; þad lesid
og markad lit. K. Partarnir adspurdir: hvǫrt meira
hefdu fram ad færa? svǫrudu: Nej! fiell því svolátandi
Yfir-rettar dómur:

Med því Yfir-rétturinn finnur, ad
þetta mál er ecki svo lǫglega medhǫndl-
ad af undir- og yfir-dómara, né svo á-
nægjanlega sañad, ad þar á kunni nock-
urr endilegur dómur grundast, Krigs-
raaden einnig vænst fleiri bevísinga, er
hann hefdi ad framfæra, sér edur Han-
dels Kompagniet í þessu máli til for-
svars, sem ecki eru heldur framkomnar;
því er bædi Lǫgþíngis og Hérads dóm-
inum hér med fráfallid, og til sídu sett-
ir, og skulu engum vidkomenda koma
til nockurs skada eda fjár útláta. En
uppá þad, ad málid skuli þó fá tilbæri-
legann og lǫglegann framgáng, skal
Sýslu-

Sýſlumadur J. Eggértsſon, ſem Aktor í Héradi, ſkyldugur ad hafa heilu ſøkinni innſtefnt, innan nærſtkomandi Augúſti mánadar útgángs, fyrir Réttarhald Sýſlumannſins G. Runólfsſonar, til hvørrar tídar Krigsraaden einnig ſtendur frítt fyrir, ad framfæra ſitt forſvar, mót almúgans ákjærum, er hann meinar ſig hafa, og hefir ſjálfur eptirbeidſt ad antekid yrdi, þá Sýſlumanni G. Runólfsſyni byrjar þannig ad afgjøra ſøkina, ſem løg og Réttur tilhalda, og hann vill ſjálfur forſvara. Próſeſs umkoſtnadur og partanna prætentióner á allar ſídur upphafdar. *Actum ut ſupra.*

O. Stephánsſon.

S. Sølvaſon. J. Olafsſon.
Th. Magnúsſon. B. Sigurdsſon.
D. Schéving. E. Olafsſon.
L. Gudmundsſon. J. Helgaſon.
J. Jónsſon. G. Brynjólfsſon.
M. Giſlaſon. O. Stephánsſon.

# Num. II.

Þann 19da Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, mætti þá Sýslumadur Þ. Scheving, vegna Jóns Jónssonar á Gróustødum, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 14da Nóv. 1768, med hvørri stefnast: a.) Løgmadurinn S. Sølvason, til ad forsvara sinn genginn Løgþingis dóm af 19da Júlí s. á., í einni mót Sýslumanni E. Olafssyni høfdadri søk, rísandi út af hans ofháum tekjum af Almúga, í Kóngsins skatta og adra þegnskyldu. b.) Sýslumadurinn E. Olafsson, sitt Forhold hier í ad til- og for-svara, undir endilegann Yfir-rettar dóm, sem stefnan, vidkomendum løglega birt, útvísar; lesin og merkud lit A. Sýslumadur E. Olafsson framleggur kontra-stefnu af 21ta Martsí nærstlidna, med hvørri Løgmadurinn S. Sølvason stefnist, ad forsvara sinn gengna Løgþingis dóm í þessu máli, en Jón Jónsson kontrastefnist til ad heyra Citantens Iretteszttelser, m. v., eptir stefnunnar hljódun; lesin og merkud lit. B. Þar nærst var uppleslnn Løgþingis Próséss í þessu máli, í hvørs slúttníngu Sýslumadur E. Olafsson er frí-kenndur uppá Embættisitt, samt útlát, sem Próséssinn med sér færir, markadur lit. C. Løgmadur S. Sølvason framlagdi innlegg af 18da hújus, til styrkíngar sínum afsagda Løgþingis dómi, og uppástendur: ad Jón á Gróustødum verdi ansiedur til saka- og sekta, samt málskostnadar betalíngs, fyrir ónaudsynlega stefnu ýf-íng,

ing, til sín, sem innleggid framar sýnir; lesid og markad lit. D. Sýslumadur D. Scheving setur í Rett, síns Principals vegna: 1.) ad Sýslumanninum E. Olafssyni seu yfirbevísadar ofháar skatta-tekjur, med margra vitna eidfestum framburdi. 2.) Med hans egin gjördri forlíkun vid þann óforrettada Almúga. 3.) Med sínu forholdi fyrir og eptir þá tíd, á hvørri hann klagadur var fyrir Amtmanninum, þá hann hafi billegri verid í Kóngsins skatta og públiqve tollum. Meira framfærdu ecki Partarnir undir endilegann dóm, er þannig var af Yfir-rettinum afsagdur:

Þar fiska og prjónles reikníngur er ecki einúngis brúkanlegur á morgum hofnum hér á landi, svo sem á Ísa- og Dýra-firdi, hvar Sýslumadur E. Olafsson hefir kaupstefnu, og hlýtur ad úttaka peníuga til Sýslunnar afgiftar og annara públiqve útgifta, heldur er og vid bændur brúkadur einúngis fiska-reikníngur, þar Konúngur lætur sjálfur svara til síns kassa skøttum, tíundum og gjaftollum; þá finnur Yfir-rétturinn þad ecki rétt, ad dæma Sýslumann E. Olafsson í bætur, enn sídur fella hann frá embætti sínu fyrir þvílíkt reiknings-

hald vid almúgann, allt híngad til, jafnvel þótt hann, eptir venju á Vestfjördunn, hefdi betur gjört, líka sem hann og skal framvegis skyldugur ad halda hér um prjónles reikníng vid bændur; honum er ecki heldur løglega yfirbevísad, ad hafa brúkad vid þá fiska reikníng, einúngis hafa þar um vitnad annadhvørt hans áklagendur, edur þeir, sem hafa átt hlut í málinu. Er því dómur Løgmannsins S. Sølvasonar af Yfir-réttinum stadfestur, en Jón Jónsson, fyrir sakarinnar ónaudsynlega innstefníngu, tilfundinn ad borga 1 rdl. til Jústíts kassans, og 6 rdli. til Løgmanns S. Sølvasonar innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adfør eptir løgum.

*Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | Th. Magnússon. |
| L. Gudmundsson. | G. Runólfsson. |
| J. Eggértsson. | J. Helgason. |
| J. Jónsson. | G. Brynjólfsson. |
| S. Olafsson. | H. Vídalín. |
| M. Gíslason. | D. Stephánsson. |

NUM.

## Num. III.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur D. Scheving, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 14da Nóv. a. p., med hvørri Jón Jónsson á Gróustødum innstefnir þeim Løgþingis dómi, sem Løgmadur S. Sølvason, þann 19da Júlí 1768, affagt hefir í því svo kallada Bolúngarvíkur vertolla máli, viddvíkiandi 82 fiskum, er Sýslumadur E. Olafsson hafdi tekid hjá nockrum útródrar mønnum á Bolúngarvíkur-mølum, í hvørjum Løgþingis dómi nefndur Jón er dæmdur ad betala til Sýslumanns E. Olafssonar og sonar hans Olafs 30rdli., hvørn dóm Jón Jónsson vill fá af Yfir-rettinum upphafinn og ad engu gjørdann. Stefnan, undir Amtmanns O. Stephánssonar nafni og landsins signeti, er vidkomendum auglýst; hún lesin og mørkud lit. A. Adra Yfir-rettar stefnu framlagdi Sýslumadur E. Olafsson til Konfirmatión og Skjærpelse fyrr umgetnum Løgmannsins dómi í þessu máli, sem stefnan, dat. 21ta Martsí nærstl., undir Amtmannsins nafni og landsins signeti, vottanlega auglýst Jóni Jónssyni, framar med ser ber; lesin og mørkud lit. B. Þridja Yfir-rettar stefna var framløgd vegna Løgmanns S. Sølvasonar, á móti nefndum Jóni, til ad forsvara hjer hans, í þeirri út-teknu Yfir-rettar stefnu, gróf Beskyldninger, m. v., sem stefnan, undir Amtmannsins nafni og landsins signeti, dat. 10da Apr. þ.



á., og Jóni Jónssyni auglýst, framar sónir; lesin og markud lit. C. Þar næst var framlagdur Løgþingis Próséss og dómur í þessu máli, afsagdur þann 19da Júlí 1768, í hvørs slúttníngu optnefndur Jón er dæmdur ad betala Sýslumanni E. Olafssyni fyrir Tort og skada, 20rdli., og Olafi syni hans 10rdli., sem sami Próséss og dómur, lesinn og markadur lit D., framar útvísar. Olafur Erlendsson framleggur innlegg af 17da hújus, í hvørju hann demonstrerar sin Uskyldighed, og framfærir krøfur sínar á móti dómi Jóns; innleggid lesid og markad lit. E. Vegna Løgmanns S. Sølvasonar, mætir eptir hafandi fullmakt, Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson, og framleggur innlegg undir Løgmannsins nafni af gjærdags dató, í hvørin hann framfærir sínar Rationes decidendi í málinu, samt órímiligheit í dómi Jóns Jónssonar; og lætur uppástandа Satisfaktíón af honum, fyrir hans grófu Terminos í Yfir-rettar stefnunni; innleggid lesid og markad lit. F. Sýslumadur Þ. Scheving setur í Rett, síns Prinsipals Jóns Jónssonar vegna: ad hann hafi mátt, eptir Amtmannsins skipun, dæma í þessu máli, hvørt heldur þad verdi álitid fyrir privat eda kríminal sök; hann hafi vitad, ad Sýslumadur E. Olafsson og sónur hans Olafur, hafi, ad egendum fjærlægum, útlagt 82 fiska úr þeirra fiski-stocknum. Partarnir innláto sökina til Yfir-rettarins rettdæmis, og segjast eckert meira hafa fram

ad

ad fœra, undir endilegann dóm, sem þannig var af Yfir-rettinum affagdur.

Jón Jónsson á Gróustødum, sem án allra vidkomenda beidni, þvert á móti Amtmannsins Ordre af 12ta Júlí 1767, er einúngis grundudu sig á partanna vilja og velþócknun ad halda þessu máli til laga, og átti því ad halda sér þær somu eptirréttanlegar, hefir dœmt Sýslumann **E. Olafsson** og **Olaf** son hans í **Tvígjælds** bætur, samt **at** **bøde** sine **Tremark** til **Hans** kongl. Hátignar, fyrir Sýslumannsins, pro officio, í útnefndra votta vidurvist, gjört útlag af 82 fiskum, í fiska-stockum sjóróandi manna í **Bolúngarvík**, til handa **Bergi Sigmundssyni**, sem réttum vertolla takara samastadar, ad hvørju verki **Olafur** sonur Sýslumannsins hefir einnig stadid, skal, eptir dómi Løgmanns **S. Solvasonar** af 19da Júlí 1768, svara til Sýslumanns **E. Olafssonar** 20 rdlm., og til **Olafs Erlendssonar** 10 rdlm. Crón., fyrir þeim uppá-

 fært



fært Blame og Æreſpilde; en til Løgmanns S. Sølvaſonar, fyrir grófar og óſæmilegar ſtefnu-ſakir, 8 rdlm. Spec. J Próſeſs umkoſtnad hefdi honum byrjad ad betala til vidkomenda nockud anſeeligt, en þar fyrir er honum hlíft af medaumkun vegna hans fátæktar og veſæla áſtands, en ſem temere litigans ſkal hann betala 2 lód ſylfurs til Júſtíts kaſſans, allt innan næſtkomandi veturnátta, undir adfor eptir løgum.

*Actum ut ſupra.*

Þ. Stephánsſon.

B. Markúsſon. L. Gudmundsſon.
G. Runólfsſon. J. Eggértsſon.
J. Helgaſon. J. Jónsſon.
G. Brynjólfsſon. H. Vidalín.
Þ. Stephánsſon. A. Jónsſon.
Hallur Jónsſon.

## NUM. IV.

Sama Eptirmiddag mætti Sýſlumadur E. Olafsſon ad nýju í Yfir-rettinum, og framlagdi Yfir-rettar ſtefnu af 22rum Júli 1768, med hvørri innſtefniſt einn, af Viſi-løgmanni J. Olafsſyni, þann 21ta og 22ann

Apr.

Apr. 1768 affagdur Extra-løgþíngis dómur, í pantsetníngar-máli Sýslumannsins í Vestmannaeyjum, S. Sigurdssonar, med hvørjum Sýslumadur E. Olafsson er dæmdur ad borga til Sýslumanns S. Sigurdssonar fyrir Æreſpilde og Blame, 30rdli, í málskostnad 20rdli.,) og til Jústits-kassans 1rdl., m. v., sem sama Yfir-rettar siefna, undir Amtmans O. Stephánssonar nafni og landsins ſigneti, framar med ser ber; lesin og mørkud lit. A. Því nærst sendi Visi-løgmadur J. Olafsson innlegg í Rettinn af 18da hújus, hvar í hann affegir ad gánga í Rett móti Sýslumanni E. Olafssyni, sem innleggid framar med ser ber; lesid og markad lit. B. Annad innlegg frá Visi-løgmanninum, af sama dató, var framlagt, í hvørju hann uppástendur: ad Sýslumanns E. Olafssonar Hjerads Prótókoll, í hvørjum hann þykist fundid hafa ein og ønnur óriktugheit í þessu máli, verdi af Yfir-rettinum skodadur, og vonar ad Sýslumadurinn verdi, fyrir hans medhøndlun, álitinn eptir laga og Rettar fyrimælum, sem innleggid framar sýnir; lesid og markad lit. C. Sýslumadur, E. Olafsson framleggur Extra-løgþíngis Próſess og dóm, genginn á Skutulsfjardareyri þann 22 Apr. 1768, med hvørjum Sýslumanns E. Olafssonar Hjerads dómur er upphafinn, og hann tilfundinn ad betala í Reparatión og málskostnad til Sýslumanns S. Sigurdssonar 50rdli Crón., samt 1rdl. pro meliori Informatione til Jústits-kassans, en jørdin Hólar í

Dýrafirdi ad vera eign kaupandans, Ketils Sigurdssonar, m. v., sem dómurinn med ser færir; lesinn og markadur bókstafnum D. Enn þá framleggur Sýslumadur E. Olafsson, medkenningu Ketils Sigurdssonar, ad sitt innlegg fyrir Rettinn á Skutulsfjardareyri, se eptir bón sinnni skrifad og stýlad, þótt ecki hafi hann þorad ad medgánga þad fyrir Vísi-lögmanns J. Olafssonar Extra-lögþíngis-retti, vegna ótta og annara umtalna. Þetta skial er dagsett þann 12ta Sept. 1768, og uppáskrifad af 2 vottum: lesid og markad lit. E. Einnig var framlögd medkenníng Asgeirs Þórdarsonar, ad hann hafi átt ad færa kiærusin Sýslumanns S. Sigurdssonar 1ordli. Crón. frá Katli Sigurdssyni; þetta attest er dat. 29da Júní 1767; lesid og audkennt lit. F. Þar dagur var ad qvøldi kominn, var frá Rettinum gengid, og vidkomendum tilsagt ad mæta ad kománda morgni.

## Num. V.

Þann 20ta Júlí settist Yfir-retturinn á ný, mætti þá Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson, og framlagdi Amtmanns O. Stephánssonar skickun af giærdags dató, med hverri hann beordrast uppá Kaupmanns Hermans Aystrups vegna ad gánga í Rett í þessari sök; lesin og merkud lit. G. Klausturhaldarinn framlagdi innlegg af dags dató, hvar inni hann, uppá Kaupmann

mannsins vegna uppástendur: ad 6 Hundr. í jørdunni Hóli, verdi tildæmd Kaupmanninum, og hann fái Satisfaktión fyrir innsetníngu til þessa Rettar; lesid og markad lit. H. Sýslumadur E. Olafsson framleggur innlegg af dags dató, hvar í hann beidist: ad Visi-løgmadur J. Olafsson verdi múlkteradur bædi til sín og Jústits-kassans, fyrir gróf orda-tiltæki í innleggi hans ádur framløgdu, undir bókstafnum B; innleggid lesid og markad lit. J. Annad innlegg af sama dató, á móti Visi-løgmannsins Prætentión, uppá Sýslumannsins óriktugt og óforsvaranlegt Prótókolls-hald, innann Isafjerdar Sýslu, og uppástendur bætur og Satisfaktión, fyrir Tort og Kalumnie, samt múlkt til Jústits-kassans; innleggid lesid og markad lit. K. Frá Visi-løgmanninum framlagdist innlegg af 18da húius, hvar í hann uppástendur sinn Extra-løgþíngis dómur verdi stadfestur; lesid og markad lit. L. Yfir-retturinn spurdi: hvørt Sýslumadur S. Sigurdsson væri hjer nálægur, eda nockurr hans vegna? þar til svørudu allir: nei! enn framar vóru Partarnir adspurdir, hvørt meira hefdu ad framfæra í søkinni? svørudu: nei! einúngis refererar Sýslumadur E. Olafsson sig til innleggja sinna fyrir Extra-løgþíngis-rettinum, og krefst, ad reisa sín og stefnukostnadur til þessa Rettar, verdi ser tildæmdur. Var því af Yfir-rettinum svolátandi dómur afsagdur:

Eptir því sakarinnar adal vidkomandi, Kétill Sigurdsson, er ecki innstefndur til þessa Yfir-réttar, svo kann ecki heldur adal-málid ad fyritakast né afgjørast; heldur tilkémur sækjanda ad innstefna honum til nærstkomanda árs Yfir-réttar, svo framt hann vill hafa sér sinn Rétt reserveradann, og stendur ødrum vidkomendum søkin opin og óspillt á medan. En hvad sérílagi áhrærir Sýslumanns L. Olafssonar krøfur á móti Vísi-løgmanni J. Olafssyni, fyrir hans ákjærur í framløgdum innleggjum, bædi yfir hans óriktugri Prótókolls færslu, sem nú í Yfir-réttinum er þó ecki óriktugur fundinn, og um óbættar sakir, sem enginn í Yfirréttinum vidkanast, þá tildæmist Sýslumanninum í Satisfaktión 10rdlr., sem Vísi-løgmadurinn til hans betali innan nærstkomandi veturnátta, undir adfør eptir løgum. *Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

S. Sølvason. B. Markússon.

D. Schéving. L. Gudmundsson.
G. Runólfsson. J. Eggértsson.
J. Jónsson. G. Brynjólfsson.
H. Vídalín. O. Stephánsson.
A. Jónsson. Hallur Jónsson.

## Num. VI.

Sama Fyrirmiddag mætti ad nýju í Yfir-rettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 19da húius, med hvørri stefnast Hierads og Løgþingis Próséssar og dómar, í Delinqvents sök Páls Bjørnssonar og Gudrídar Vilhjálmsdóttur, er einnig stefnast dóm ad lída; lesin og merkud lit. A. Var svo framlagdur Hierads og Løgþingis Prósess í þessu máli, í hvørju Løgmadur S. Sölvason dæmt hefir: ad Delinqventerne Páll og Gudrídur, hann fyrir illa medhøndlun á hennar í dulsmáli fædda barni, og hún, fyrir dulsmálid siálft, skulu bædi lífid missa, eptir sem Løgþingis dómurinn af 17da húius med ser ber; lesinn og markadur lit. B. Delinqventerne adspurdir: 1) Hvad kom til, ad ecki var sókt yfirsetu-kona, til ad vera hiá Gudrídi Vilhjálmsdóttur, þegar hún barnid ól? svara hvørt um sig: ad svo lángt hafi til bæja verid, ad því hafi ómøgulega ordid vidkomid, þar þau hafi einúngis tvø á bænum verid af fullordnu fólki. 2.) Hvørninn leit barnid út eda var ásigkomid, þegar þad fæddist?

mött-



módirinn svarar: ad ser hafi virdst þad lidid; en fadirinn: ad þad hafi verid lísliti, og ecki hafi þvi niðurrunnid, þótt á þad þrisvarsinnum dreypt væri. 3.) Hvørr skyldi á milli? módirinn svarar: hann; en hann segir: hún. 4.) Vegna hvørs flóttir þú, Páll! svo mjøg greftrun barnsins, þar þad var móti allri venju grafid samdægurs og þad fæddist? svarar: af þvi þad var lidid. 5.) Hvørr braut høfud-skelina í barninu? svarar: eg veit þad ecki. 6.) Var høfudskelin óbrotin þegar þú tókst barnid frá módurinni? svarar: ójá! 7.) Søgdud þid nockrum, Prestinum yckar eda ødrum, frá þessari barns-fædingu? svara nei! ecki fyrri enn málid kom undir rannsak. Að mørgu fleira vóru þau spurd, en vildu eckert framar medkenna málinu til upplýsingar. Sýslumadur E. Olafsson játar, ad frá heimili saka-persónanna seu hjerum 4 mílur til næsta bæja, svo ecki verdi audveldlega náð þadan yfirsetu-konu. Vegna Delinqventanna framleggur þeirra Talsmadur innlegg af dags dató, hvar med hann uppástendur: ad Løgþíngis og Hjerads-dómarnir verdi linadir; lesid og audkennt lit. C. Løgmadur S. Sølvason framfærir eckert annad, enn sinn dómur verdi vid Akten samanborinn, og í málinu eptir sem løglegt álitst, dæmt og afsagt. Sýslumadur E. Olafsson vonar einnig ad sinn dómur stadfestur verdi. Meira framfærdu ecki málspartarnir, var því svolátandi Alyktan af Yfir-rettinum í málinu afsøgd:

þar

Þar Sýslumadur E. Olafsson hefir forsómad, ad láta skodunar-menn þess upp aptur grafna andvana barns líkama, eidfesta þeirra þar um gjørda Forretning og Udsigende fyrir Rèttinum, ecki heldur er þad sannad, hvørsu lángt heimili þeirra hafi legid frá ødrum bæjum, og alls eckért eptirspurt um saka-persónanna undanfarid liferni, er øllu byrjadi þó hid náqvæmasta ad eptirgrenslast, eins og allri møgulegri upplýsíngu, er í svo mikilvægu máli gat fengist; þá er søkinni, til náqvæmara ransaks, aptur í Hérad heimvísad, undir nýjann dóm, og skulu þvi þeir afsøgdu Hérads og Løgþíngis dómar ógyldir vera. Á medan skulu saka-persónurnar vera í forsvarsanlegu vardhaldi Sýslumannsins E. Olafssonar. Actum ut supra.

O. Stephánsson.

B. Markússon. D. Schéving.
L. Gudmundsson. G. Runólfsson.
J. Eggértsson. J. Jónsson.
G. Brynjólfsson. S. Olafsson.
H. Vídalín. O. Stephánsson.
Hallur Jónsson.

NUM.

## Num. VII.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson, Settidómari í dulsmáls-søk Sigurdar Valdasonar og Geirlaugar Þorsteinsdóttur, og liet fyrst upplesa af Yfir-rettar Prótókollnum þá álÿktun, sem í fyrra skedi í sømu søk, hvar eptir upplesinu var sá Vitnaleidslu-akt, sem nefndur Klausturhaldari, þann 6ta Júní nærstlidna, ad Hofi í Oræfum tekid hefir, um aldur, líferni og háttalag nefndra saka-persóna, eins og sami Þíngs-akt framar med sier ber; lesinn og audkenndur bókstafnum B. Saka-persónurnar af Yfir-rettinum náqvæmlega yfirheyrdar, medkenna eckert framar í þessu máli, enn ádur innfært er í Hierads og Løgþíngis, samt Yfir-rettar Þíngbókina. Þeirra setti Talsmadur, Sÿslumadur L. Gudmundsson heldur sig til þeirra fyrir Hierads- og Løgþíngis-rettinn framløgdu innleggja, og beidist: ad Løgþíngis dómurinn verdi linadur, Settidómarinn þaráhnóti eins og Løgmadurinn uppástanda sinna dóma stadfestíngu, sem á løgum grundadra. Frekara framfærdu ecki málspartarnir undir afgjørandi Yfir-rettar dóm, er þannig var affagdur:

### Løgmanns B. Markússonar afsagdi Løgþíngis dómur, af 12ta Júlí 1768, í þessari dulsmáls søk, er af Yfir-

ir-réttinum stadfestur, og skulu saka-persónurnar, Sigurdur Valdason og Geirlaug Þorsteinsdóttir straffast á lífinu, med því ad hálshøggvast, og þeirra høfud á stjaka uppsetjast, eptir laga fyrimælum; þó skal málid, ádur enn dóminum sé fullnægja gjør, géfast konúnglegri hátign allraundirgéfnast til vitundar, til allramildustu úrlausnar.

*Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| S. Sølvason. | G. Runólfsson. |
| J. Eggértsson. | G. Brynjólfsson. |
| P. Vídalín. | D. Stephánsson. |
| A. Jónsson. | Hallur Jónsson. |
| Oddur Hjaltalín. | Gunnar Hoguason. |

## Núm. VIII.

Þann 21ta Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, sem liet upplesa þá í fyrra þann 20ta Júlí afsøgdu Alyktun, í máli Ingunnar Sigurdardóttir af Vødlu Sýslu, med hvørri máli því var aptur í Hjerad heimvísad til nákvæmari prófunar. Þings-vitni var þessu næst framlagt, tekid af Sýslumanni J. Jakobssyni þann 25ta Apr. þ. á., áhrærandi hennar barneignar-brot, og

Ekta-

Ektamannsins henni settar fiærvistir; lesid og markad lit. E. Hinn setti Talsmadur, Sýslumadur J. Egg-ertsson. uppástendur og bidur, ad Løgþíngis dómurinn liuist, og lýsir þvi: ad Ingun Sigurdardóttir se enn þá svo heilsu-veik, ad hvørki geti hún mætt í Yfir-rett-inum, ne heldur se fær til ad þola nockurt tøluverdt likama-straff, og lætur sokina svoselda til dóms. Und-ir- og Yfir-dómarar fela einnig málid Yfir-rettarins sanngiarna álití, hvar uppá fiell svolátandi dómur:

Sá af þeim konstitúerada Sýslu-manni í Vødlu Sýslu, V. Schéving, affagdi Hérads dómur af 16da Júní 1767, hvar med Ingun Sigurdar-dóttir er dæmd til ad erfida í Íslands Tukthúsi í 3 ár, fyrir hennar medgeng-in tvø fridlulífis brot med egingiftum mønnum, og þad þridja siálf gift, er af þessum Yfir-rétti stadfestur, skal hún þvi ad Sýslumannsins í Vadla Sýslu tilhlutun þángad flytjast, svo snart hún álitst vegna heilsu sinnar fær til í Tukthúsid ad innsetjast.

*Actum ut supra*

D. Stephánsson.

B.

B. Markússon. Þ. Schéving.
J. Snorrason. L. Gudmundsson.
G. Runólfsson. J. Helgason.
J. Jónsson. G. Brynjólfsson.
S. Olafsson. H. Vídalín.
Þ. Stephánsson.

## Num. IX.

Sama Fyrirmiddag præsideradi í Yfir-rettinum, Løgmadurinn B. Markússon, eptir Hra. Amtmannsins Authorisatión; mætti þá Løgsagnarinn A. Jónsson vegna Sýslumannsins B. Haldórssonar, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 3ia Sept. 1768, med hvørri stefnist Løgmanns S. Sølvasonar Løgþíngis dómur, affagdur þann 9da Júlí s. á., áhrærandi framsæri ómagans Gudnýar Magnúsdóttur hjá Eigli Gunnlaugssyni, m. v., sem stefnan, vidkomendum auglýst, med ser ber; lesin og mørkud lit. A. Løgmadur S. Sølvason framlagdi kontra-stefnu af 3ia Nóvembr. 1768, til Sýslumanns B. Haldórssonar, lesin og audkennd lit. B. Hann framlagdi einnig fullmakt frá Eigli Gunnlaugssyni, ad svara til málsins hans vegna, dat. 23ia Febr. 1769; lesin og mørkud lit. C. Þar eptir var framlagdur Próséss og dómur í þessu máli, affagdur af Løgmanni S. Sølvasyni þann 9da Júlí 1768, í hvørs slúttníngu Eigill Gunnlaugsson er fríkenndur frá

 fram-

framfæri ómagans Gudnýar Magnúsdóttur, en Sýslumadur B. Haldórsson dæmdur ad betala 4 rdli. í málskostnad; lesinn og markadur lit. D. Løgsagnar-inn A. Jónsson framlagdi innlegg af 28da Júní nærst-lidna, undir Sýslumannsins nafni, sem er hans Paa-stand móti Løgþingis dóminum, og røksemdir fyrir hans Hjerads dómi, sem innleggid framar med ser ber; lesid og markad lit. E. Løgmadur S. Sølvason framlagdi innlegg af dags dató, til forsvars sínum dómi; lesid og markad lit. F. Frá Sýslumanni B. Haldórssyni framlagdist innlegg af 28da Júní nærstlidna, sem er hans Prótest móti kontra-stefnu Løgmannsins; lesid og markad lit. G. Løgmadurinn qvedst fráfalla Aktión og Jretteszættelser mót Sýslumanni B. Haldórssyni, svo vidt kontra-stefnuna áhrærir, en óskar ad sinn Løgþingis dómur verdi stadfestur. Meira framfærdu ecki Part-arnir, var því af Yfir-rettinum svolátandi dómur í mál-inu afsagdur:

Sýslumadur B. Haldórsson hef-ir, þann 27da Júní 1766, dæmt Egil Gunnlaugsson ad betala ómaganum Gudnýu Magnúsdóttur 1 hundr. til framfæris, hvad engannveginn kann ofmikid álítast, í tilliti til þeirra fémuna, sem í Hérads Prófessinum sannad er ad kona Egils átt hafi; er því sami Hér-ads

ads dómur af þessum Yfir-rétti stadfestur, en Løgþíngis dóminum fráfallid. Fyrir óþarflegt Appell frá Hérads-rétti til Løgþíngis, borgi Egill Gunnlaugsson til Sýslumanns B. Haldórssonar 4rdlr. Crón. innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adför eptir løgum.

*Actum ut supra.*

B. Markússon.

J. Olafsson. Th. Magnússon.
O. Schéving. J. Snorrason.
L. Gudmundsson. G. Rúnólfssón.
J. Eggértsson. J. Jónsson.
G. Brynjólfsson, H. Vídalín.
O. Stephánsson.

Annó 1770, þann 19da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórum.

## NUM. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur J. Jelgason, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 21ta Júlí nærstlidins árs, med hvörri stefnt er dómi Lögmanns B. Markús-sonar, afsøgdum þann 17da s. m. yfir Sýslumannsins medferd á Delinquents sök úr austur Skaptafells-sýslu, sem stefnan med ser færir; lesin og merkud lit. A. Stefnan hefir øllum vidkomendum birt verid, sem uppá-skriftirnar sýna, og eptir henni mæta þeir allir, nema Þorsteinn Bjarnason. Sýslumadur J. Helgason, mótmælir Amtmannsins Præsidió, sem interesserads vegna honum tildæmdra bóta af Løgþíngis-rettinum; var því sendt frá Yfir-rettinum til Landfógeta S. Magnússonar, og hann af Amtmanninum ánmodet ad antaka Præsidium í málinu, eptir þar um útgefinni kónglegri Tilskipun, en þar Landfógetinn saksakar sig, søkum embættis anna sinna, hefir Løgmadurinn S. Sølvason, eptir sömu Tilskipun og Amtmannsins Anmodning, samt Yfir-rettarins beidni antekid Præsidium í máli þessu, svo Rettinum ecki uppihald gjøriſt. Ad svo búnu sátu Assessorerne hjer um einn klucku-tíma í Rettinum, en Aktor mætti ecki, hvørs vegna þeir afsaka sig frá ad bída lengur eptir málsins fyriteft; en uppá-standa: ad Aktor verdi álitinn fyrir forsómun sína og Rettinum gjort uppihald. Var svo í burtu gengid kl. 12, eptir þriggja klucku-stunda bid.

NUM.

## Num. II.

Sama Eptirmiddag settist Yfir-retturinn á ný, undir Lögmanns S. Sölvasonar Præsidió; mætti þá Sýslumadur J. Helgason og framlagdi Lögþíngis Prócess í sökinni, sem var lesinn og markadur lit. B. Lögmadur B. Markússon óskar: ad innfært verdi í Prótókollinn, ad Sýslumadur J. Helgason þverneitar, ad Hra. Amtmadurinn fyrir Lögþíngis-rettinum nærstlidid ár, hafi tilbodid og eptirgefid ser, þau ídæmdu 20 lód sylfurs, sem Lögþíngis Akta umgeta Hra. Amtmadurinn hafi honum eptirgefid. Sýslumadur J. Helgason framlagdi vitnaleidslu-akt, er hann beiddi ad uppleſinn væri; en Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson mótmælir því, med innleggi af 18da húius; lesid og markad lit. C. Lögmadur B. Markússon qvedst eckert vita af þessum Akti ad segja, ecki heldur stefndur uppá hann ad heyra, og mótmælir því hans upplestri. Hier uppá afsagdi Yfir-retturinn fylgjandi Interlókútorium:

Pared málspartarnir eru ecki innstefndir til ad heyra uppá þenna Þíngs-Akt, af 8da, 9da og 11ta Júní nærstlidna; svo kunna þeir ecki finnast skyldugir til hans ad svara, og þar Aktinn hefir aldrei ádur fyrir Lögþíngis- edur Yfir-rett framlagdur verid, er honum af þessum Retti frávísad.

Aktor framlagdi innlegg af 17dà hújus, hvar í hann framfærir einslags forsvar, fyrir sínum svo seint gjørdu Anstalter, med Delinqventernes Arrestering; þad lesid og markad lit. D. Annad innlegg framlagdi hann, af sama dató, hvar í hann framfærir sitt vídara forsvar í søkinni; þad lesid og markad lit. E. Pridja innlegg framlagdi hann af sama dató, og sama innihaldi; lesid og audkennt lit. F. Fjórda innlegg framlagdi Aktor, sem er hans Repliqve og Crisis yfir Løgmanns B. Markússonar affagda Løgþíngis dómi; lesid og markad lit. G. Fimta innlegg framlagdi hann, sem innihelдur hans Invektiver móti Klausturhaldaranum Sigurdi Olafssyni, og hans Settidómara verkum; lesid og markad lit. H. Sjøtta innlegg framkom, sama innihalds og hid fyrra; lesid og audkennt lit. I. Sjøunda innlegg framlagdi hann, sem eru hans Irettesættelser og Paastand, móti hans kontra-partum; lesid og markad lit. K. Undir sømu lit. framleggur Sýslumadur J. Helgason þann í innlegginu umgetna Reikníng. Aktor adspurdur af Rettinum: hvørt meira hefdi fram ad leggja? svarar þar til: nei! Løgmadur B. Markússon framlagdi innlegg af 18da hújus, sem var lesid og markad lit. L; og uppástendur, ad þad nú í Rettinn framlagda bref Sýslumanns J. Helgasonar til Hra. Amtmanns O. Stephánssonar, verdi upplesid og í akt tekid, eins og þau, í Sýslumanns J. Helgasonar innleggjum, brúkudu grófu orda-tiltæki og ákjærur, metist

metist ad verdugleikum. Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson framlagdi innlegg af 18da húius, sem er Demonstratió sakarinnar og hennar samhengi, þad lesid og markad lit. M. Annad innlegg framlagdi Klausturhaldarinn, hvar med hann infringerar Sýslumanns J. Helgasonar Paastand um arresthold Geirlaugar, þá Klausturhaldarinn og endilega uppástendur: ad Sýslumanns J. Helgasonar grófu orda-tiltæki í hans innleggjum, verdi tilbærilega álitin; innleggid lesid og markad lit. N. Sýslumadur L. Gudmundsson framlagdi innlegg, sem infringerar Sýslumanns J. Helgasonar Paastand í Yfir-rettar stefnunni, og uppástendur: ad Lögmanns B. Markússonar dómur, verdi í öllum atridum stadfestur; lesid og markad lit. O. Meira lögdust málspartarnir ecki hafa ad framfæra í sókn eda vörn þessa máls, hvörs vegna í því var af Yfir-rettinum afsagdur eptirfylgjandi Dómur:

Lögmanns B. Markússonar afsagdi Logþingis dómur í þessu máli, er í öllum atridum af Yfir-réttinum stadfestur, og skal Sýslumadur J. Helgason betala til Lögmanns B. Markússonar, í kost og tæríngu 6 rdli. Cróner, til Klausturhaldarans S. Olafssonar 4 rdli. Crón., og til Sýslumanns L.

Gudmundssonar 4 rdli. dító, innan nærstkomandi Michaelis messu. En hvad framar áhrærir Sýslumanns J. Helgasonar grófar Beskyldninger og Expressióner í hans innleggjum, bædi á móti Hra. Amtmanninum, Løgmañi B. Markússyni og Klausturhaldara S. Olafssyni, þá á honum þar fyrir pro foro Competente ad tiltalast, svo sem þeim reserverast allar þær Prætentióner og Tiltale til Sýslumanns J. Helgasonar imidlertid. En fyrir uanstændigt Opførsel og især grove Expressioner, svo vel fyrir Réttinum sem í hans framløgdu innleggjum, skal hann betala 2 rdli til Jústits Kassans.

*Actum ut supra.*

S. Sølvason.

| | |
|---|---|
| M. Olafsson. | J. Arnason. |
| E. Olafsson. | G. Runólfsson. |
| J. Jakobsson. | J. Eggértsson. |
| J. Jónsson. | G. Hjørleifsson. |
| S. Sigurdsson. | J. Arnórsson. |
| P. Axelsson. | O. Stephánsson. |

NUM.

## NUM. III.

Þann 20ta Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, undir Amtmanns O. Stephánssonar Præsidió; mætti þá Klausturhaldarinn Sigurdur Olafsson, vegna Landfógetans S. Magnússonar, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, útfekna af adjúngeret Landfógeta J. Skúlasyni, af 30ta Apr. þ. á., med hverri Krigsraad A. Gudmundsen er stefndur ad mæta fyrir þessum Yfir-retti, til ad forsvara sín gróf-yrdi vid Landfógeta S. Magnússon, vid Besigtelset í Hólmsins Kaupstad þann14da Júlí 1769. Sýslumadur G. Runólfsson stefnist einnig sem vidkomandi, ad forsvara sitt Afsigt í þessu máli, afsagt þann 16da Aug. 1769, sem stefnan, vidkomendunum lóglega byrt, framar med ser færir: lesin og merkud lit. A. Uppá Krigsraadens vegna mætir, eptir fullmakt, sonur hans P. A. Sorøe, og framleggur kontra Yfirrettar stefnu af 18da Maí nærstlidna: hún lesin og merkud lit. B. Landfógeti S. Magnússon liet í Rettinn framleggja, þann af Sýslumanni G. Runólfsyni, af dató 16da Aug. 1769 gengna Próseß og dóm; hann lesinn og markadur lit. C. Krigsraadens Fuldmægtig, P. A. Sorøe, framleggur innlegg af 18da húius, hvar í hann demonstrerar, sókina, og framfærir forsvar; þad lesid og markad lit. D. Meira hefdu ecki málspartarnir í Rettinn fram ad leggja, hvers vegna í málinu var af Yfir-rettinum eptirfylgjandi dómur afságdur:



Pad er med eidsvørnum vitnum svo vel sem þeirri gjørdu Forretning í Hólmsins Kaupstad, þann 4da Júlí 1769, fullkomlega sannad, ad millum Krigsraad A. Gudmundsen og Landfógeta S. Magnússonar, hafi fallid þvílík ósæmileg ord, sem þeir hafa stefnt hvørr ødrum ad standa til rétta fyrir; en med því ordin og beggja þeirra Opførsel, sérdeilis þá Landfógetans gjørt Fretteſættelse, mót Krigsraaden, fyrir Rétti Sýslumanns G. Runólfssonar, verdur adgætt, sýnist kunna ad jafnast á bádar sídur, svo er hvørugum þeirra af Yfir-réttinum dæmd nockur Satisfaktión þar fyrir, heldur erklærast þeir bádir, fyrir þeirra í Overilelse tøludu ord, svo vídt sama kann fyrir þessum Rétti ventilerast, fyrir eins góda menn og þeir hafa nockurntíma fyrri verid, og eru fríkénndir fyrir øllum bótum og útlátum hvørr til annars, hvar af einninn fylgir, ad Prósess umkostnadur

adur er: á bádat sídur, med øllu upphafinn.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Sølvason. B. Markússon.
M. Olafsson. J. Arnason.
E. Olafsson. M. Kétilsson.
L. Gudmundsson. J. Jakobsson.
J. Jónsson. G. Hjørleifsson.
J. Arnórsson. P. Axelsson.

## Num. IV.

Þann 21ta Júlí ad Yfir-rettinum settum, mætti Sýslumadur E. Olafsson, sem framlagdi Yfir-rettar stefnu af 21ta Júlí 1769, yfir Extra-løgþingis dómi Vísi-løgmanns J. Olafssonar, af 22rum Apr. 1768, í pants- og gjalds-søk á milli Sýslumanns S. Sigurdssonar og Handels Kompagniet; lesin og merkud lit. A. Klausturhaldarinn S. Olafsson framlagdi Konstitútión af 19da hújus ad gánga í Rett Kaupmanns H. Aystrups vegna, lesin og morkud lit. B. Sýslumadur J. Jakobsson framlagdi fullmakt Vísi-løgmanns J. Olafssonar af 28da Mai nærstlidna, ad gánga í Rett hans vegna; lesin og merkud lit. C. Þessu nærst var framlagdur Løgþingis og Hjerads Próséss í málinu; lesinn og markadur lit. D. Sýslumadur E. Olafsson fram-

framlagði innlegg af 17da húsis sínum Prófedenr og dómi í málinu til forsvars; lesið og markad lit. E. Sýslumadur S. Sigurdsson framlagdi innlegg af dags dató, hvar í hann átelur Sýslumanns E. Olafssonar adgjørdir í sokinni, og vill rettlæta søluna á þeirri pantsettu jørdu, af hvørri málid rís, og uppástendur kost og tæringu, m. v., sem innleggid hermir; lesid og markad lit. F. Vegna Vísi-løgmanns J. Olafssonar, uppástendur Sýslumadur J. Jakobsson, ad Extra-løgþingis dómurinn verdi í øllum greinum stadfestur. Klaustyrhaldarinn S. Olafsson uppástendur Kaupmanns H. Aystrups vegna, ad honum verdi jørdin tildæmd, sem ølogleaa burtseld, og þar hjá tilbærileg Satisfaktión. Partarnir qvádust ecki meira hafa fram ad færa í sókn edur vørn, var því af Yfir-rettinum í þessu máli afsagdur eptirfylgjandi Dómur:

Madame Ástu Sigurdardóttur sala á 6 hundr. í jørdunni Hóli í Dýrafirdi, til bóndans Ketils Sigurdssonar, eptir gjørdu undirlagi og skriflegu loforði hennar Ektamanns, Sýslumanns S. Sigurdssonar, dat. 4da Maji 1767, en stadfestu hann 27da Sept. s. á., er af Yfir-réttinum dæmd og metin ólogleg í allann máta, og fyr-

ir Sýslumanninn, sem frumqvedul í öllu þessu verki, uanstœndig, þar hann hafdi siálfur ádur, undir 6ta Októbr. 1766, pantsett sømu 6 hundr. Kaupmanni H. Aystrup, fyrir honum af Høndluninni lánadar 27 vættir 21 fisk, uppá hvørn Restans, þá jardar-kaupid giørdist, var ecki búid ad betala meir eñ 3 vættir 31½ fisk, eptir Kaupmanns H. Aystrups reikníngi af 16da Okt. 1767, sem í Prósessinu er innfœrdur; stendur þvi Kaupmanninum frítt fyrir, uppá Handels Kompagniets vegna, ad selja þau honum pantsettu 6 hundr. í jørdunni Hóli, eptir Pante Obligationens Medfør, þeim er hann finnur fyri gott, til þess enn þá resterandi Sýslumanns S. Sigurdssonar gjalds afbetalings epter Obligationen, þá Katli Sigurdssyni, sem jørdina keypt hefir af Sýslumanninum, tilkénur Overskuddet af jardarinnar andvirdi. Er svo dómur Vísi-logmanns J. Olafssonar í þessu máli, afsagdur þann 22añ Apr. 1768,



1768, hér med sem ólöglegur upphafinn, og skal ecki koma Sýslumanni E. Olafssyni til skada edur hneisu í nockurn máta, heldur skal Vísi-lögmadurinn, fyrir svo ógrundadann dóm, betala 2 rdli. til Jústits kassans, og til Sýslumanns E. Olafssonar 8 rdli., í Reparatión og málskostnad. Sýslumadur S. Sigurdsson, sem vel hefdi einnig kunnad tilfinnast ad svara málskostnadi til Sýslumanns E. Olafssonar, er, í tilliti til þess ofharda dóms, sem af Sýslumanni E. Olafssyni er yfir honum felldur, þar fyrir fríkénndur, en til Kaupmanns H. Aystrups betalar hann í Prósess kostnad 6 rdli Crón., hvörjar bætur skulu allar luktar vera innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adför eptir lögum.

*Actum ut supra*

D. Stephánsson.

S. Sölvason. J. Arnason.
M. Kétilsson. L. Gudmundsson.
G. Runólfsson. J. Eggértsson.

J.

J. Jónsson. G. Hjörleifsson.
J. Arnórsson. P. Axelsson.
D. Stephánsson. A. Jónsson.

## NUM. V.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur J. Eggertsson, vegna Lögmanns B. Markússonar og Sýslumanns B. Sigurdssonar, til ad forsvara gengna dóma í þjófnadar máli Jóns Jónssonar af Arnes Sýslu, fyrir Hieradsog Lögþíngis-rettum, og framlagdi þau gengnu akta í sökinni, med uppástrifadri Yfir-rettar stefnu, med hvorri Delinqventinn og vidkomendur eru innstefndir til ansvara og dóm ad lída, sömuleidis Hierads og Lögþíngis dómarnir, sá fyrri af 27da Jan., hinn sídari af 6ta Júlí 1769; lesnir og markadir, lit. A. Þar næst var framlagt innlegg undir nafni Sýslumannsins G. Brynjólfssonar, af dags dató, hvar í hann uppástendur: ad dómurinn verdi stadfestur; lesid og markad lit. B. Vegna Delinqventsins, mætir Lögsagnarinn A. Jónsson, eptir Amtmannsins skickun af 20ta húsus; lesin og markud lit. C. Delinqventinn af Rettinum yfirheyrdur, medkennir hid sama, sem hann ádur fyrir Hierads og Lögþíngis-rettum hefir á sig játad, ad undanteknu því, sem um eina á er innfært, hvar um hann qvedst ecki sekur vera. Talsmadur hans, Lögsagnarinn A. Jónsson fram-

framlagdi innlegg af dags datô, hvar í hann uppástendur: ad þeir undangengnu dómar verdi linadir, og Delinqventinn ecki dæmist svo hardt, sem ádur er sked; lesid og markad lit. D. Meira framfærdu ecki Partarnir; því affagdi Yfir-rètturinn svofeldann Dóm í málinu, sem fylgir:

J tilliti til konúnglegrar allramildilegast Delinqventinum Jóni Jónssyni géfnu æru uppreisnar, fyrir hans í fyrsta sinni framda smáþjófnad, sem ecki á ad koma hans nafni og rykti til hneckirs eda skada í nockurn máta; þá ályktar og dæmir Yfir-rètturinn: ad sá smáþjófnadur, sem Delinqventinn Jón medkénnt hefir fyrir Rèttarhaldi Sýslumanns G. Brynjólfssonar, þañ 27da Jañ. 1769, og er af honum ásamt Lögþíngis-rèttinum dæmdur fyrir, egi nú ad álítast og straffast eins og þad væri hans fyrsta þjófnadar brot, og egi hañ því, fyrir tilhlutun Sýslumannsins í Arness Sýslu, ad missa húdina í fángelsi þar fyrir; en med því Hérads Prófessinn med sér færir, ad hann egi enga

búslód, þá kann hún ecki heldur konúnglegri Hátign ad tildæmast.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Sølvason. J. Arnason.
M. Kétilsson. L. Gudmundsson.
G. Runólfsson. J. Helgason.
G. Hjørleifsson. J. Arnórsson.
P. Axelsson. O. Stephánsson.
S. Olafsson.

## Num. VI.

Þann 23ja Júlí mætti í Yfir-rettinum: a.) Sýslumadur J. Jakobsson, sem settur Talsmadur Bjørns Jónssonar af Hegraness Sýslu, og framlagdi Yfirrettar stefnu undir Amtmanns O. Stephánssonar nafni og landsins signeti, af 12ta Jan. þ. á., med hvørri stefnist Løgmadur S. Sølvason til ad forsvara sinn, þann 14da Júlí 1769, afsagda Løgþíngis dóm, í arfs-máli nefnds Bjørns Jónssonar, á móti Sýslumanni J. Snorrasyni og bródur Bjørns Gudmundi Jónssyni, hvørjir og stefnast ad mæta og dóm ad lída, eptir sent stefnan, lesin og mørkud lit. A, útvísar. b.) Sá konstitúeradi Settidómari, Magnús Gíslason, sem framlagdi adra stefnu til Yfir-rettarins, yfir sama Løgþíngs-

is dómi, sem ádur greinir, er hann vill fá uppháfinn, hvar med, ásamt Lögmanni S. Sölvasyni, innstefnast Sýslumadur J. Snorrason og Gudmundur Jóns-son, til ad þola endilegann Yfir-rettar dóm; stefnan er dat. 12ta Jan. þ. á., undir Amtmannsins nafni og landsins signeti; lesin og mörkud lit. B. c.) Sýslu-madur M. Ketilsson, sem settur Talsmadur Sýslu-manns J. Snorrasonar, framlagdi Yfir-rettar stefnu, til Skjærpelse Lögþíngis dóminum; líka stefnast med sömu stefnu: 1.) Lögmadur S. Sölvason. 2.) Setti-dómarinn Magnús Gíslason. 3.) Sá konstitúeradi Aktor Björns vegna, Sýslumadur J. Jakobsson, og 4.) Brædurnir Björn og Gudmundur Jónssynir, sem stefnan framar med ser ber, hún, dat. 12ta Jan. þ. á., undir Amtmannsins nafni og landsins signeti, lesin og mörkud lit. C. d.) Lögmadur S. Sölvason, er framlagdi ena fjórdu Yfir-rettar stefnu, af 12ta Jan. þ. á., undir Amtmannsins nafni og landsins signeti, med hvörri Settidómarinn M. Gíslason] stefnist ad til, og for-svara, af hvörjum myndugleika hann hefir ser tiltek-id, ad dæma Sýslumann J. Snorrason, og yfir hans skipta-akti í Bjarnastadagjerdis sterfbúi, hvar med hann vonar, ad Settidómarinn hafi fallid inn í Lög-manns embættid, sem stefnan framar med ser ber; les-in og mörkud lit. D. Allir málspartar mæta, annad-hvört sjálfir eda fyrir fullmektuga. Sýslumadur J. Jakobsson framlagdi Memorial undir nafni Björns

Jóns-

Jónssonar, í hvorjum hann beidist, ad Amtmadurinn vildi tilhalda Sýslumanni J. Snorrasyni ad meddeila ser beskrifada, þá þar í eptir óskudu Sterfbús-akta og Uppskriftir, m. v., sem sami Memoriall, dat. Ytstugrund þann 9da Martsí 1767, framar sýnir, hvar uppá Amtmadurinn hefir Ordre gefid, at udstæde til Reqvirenten somu Akter, dat. 29da Martsí s. á., lesinn og markadur lit. E. Løgmadur S. Sølvason uppástendur: ad hann ecki se skyldugur til stefnu Bjørns ad svara, þar Sýslumadur J. Jakobsson, sem vidkomandi, hvorjum hann einnig í fyrra tildæmt hafi 20rdli. af Byrni, sem hann nú áklagi, se ecki stefndur; og beidist þar um Yfir-rettarins Alyktunar, er þannig fiell:

**Løgmadur S. Sølvason er, eptir Yfir-réttar stefnunnar tilhaldi, skyldugur hér ad mæta, og til sakarinnar ad svara.**

Settidómarinn M. Gíslason framlagdi innlegg af dags dató, hvar í hann prótestierar ad svara til þeirrar, af Løgmanni S. Sølvasyni, yfir ser út-teknu Yfir-rett-ar stefnu, sokum þess hún hafi ser ecki á heimili sínu byrt verid, sem innleggid framar med ser ber; lesid og markad lit. F. Hjer uppá fiell Yfir-rettarins Alyktan þannig:

**Settidómarinn M. Gíslason, sem í tíma hefir verid anglýst Yfir-réttar stefnan,**

 ept-

eptir hans eginhandar uppáſkrift, á hér til ſakarinnar ad ſvara.

Var ſvo framlagdur Hierads og Løgþingis Próſeſs í þeſſari ſök; leſinn og markadur lit. G. Þar næſt framlagdiſt Kopía af Aſſiaaelſe Gudmundar Jónsſonar til Bjørns bródur hans, á þar inni tilteknum femunum, dat. 20ta Októbr. 1768; leſid og markad lit. H. Sýſlumadur J. Jakobsſon framlagdi innlegg af dags dató, vegna Bjørns, á móti Løgþingis dómi Løgmanns S. Sølvaſonar; leſid og markad lit. J. Annad innlegg af ſama dató, framlagdi Sýſlumadur J. Jakobsſon, hvar í hann forſvarar ſína Aktión í Hieradi móti Sýſlumanni J. Snorraſyni, og Gudmundi; leſid og markad lit. K. Sýſlumadur M. Ketilsſon framlagdi innlegg undir nafni Sýſlumanns J. Snorraſonar, af 6ta. Júlí næſtlidna, hvar í hann ákiærir bædi dóm Settidómarans M. Gíſlaſonar og Aktión Sýſlumanns J. Jakobsſonar ſer á móti í Hieradi; leſid og markad lit. L. Løgmadur S. Sølvaſon framlagdi innlegg af dags dató, hvar í hann próteſterar, ad nockur ný Dókúment af Bjørns álfu, ſinum dómi til hneckirs, verdi af þeſſum Yfir-retti antekin; þad leſid og markad lit. M. Annad innlegg framlagdi Løgmadur S. Sølvaſon af dags dató, til forſvars hans Løgþingis dómi í þeſſari ſök; leſid og markad lit. N. Þridja innlegg framlagdi hann móti Bjørns Jónsſonar ákiærum; leſid og markad lit. O. Fiórda inn-

innlegg framlagdi Løgmadurinn til framfylgis stefnu sinni móti Settidómaranum M. Gíslasyni; lesid og markad lit. P. Settidómarinn M. Gíslason framlagdi innlegg af dags dató, til forsvars sínum Hierads dómi, og Paastand á móti Løgmanns S. Sølvesonar Løgþingis dómi, hvar med fylgdi kostnadar reikníngur af sama dató uppá 41rdl. 90 ß.; hvørttveggja lesid og markad lit. Q. Annad innlegg framlagdi hann, af dags dató, á móti Sýslumanns J. Snorrasonar ákjærum og stefnu-søkum; lesid og markad lit. R. Enn þá framlagdi hann hid þridja innlegg af sama dató, sem er hans forsvar á móti Løgmanns S. Sølvasonar stefnu-søk; lesid og markad lit. S. Partarnir adspurdir: hvørt meira hefdu ad framfæra? svara: nej! var því málid til dóms upptekid, sem fiell svo látandi:

Sá Løgþíngis dómur, sem Løgmadur S. Solvason, þann 14da Júlí 1769, affsagdi í þeirri søk, sem Sýslumadur J. Jakobsson, vegna Bjørns Jónssonar, á móti Sýslumanni J. Snorrasyni og Gudmundi Jónssyni, í þeirri svo kolludu Bjarnastadagérdis sterfbúss søk, anlagt hefir, er af flestum þessa Yfir-réttar Assessórum þannig stadfestur: ad Sýslumadur

J. Snorrason eldúngis frikenniſt fyrir Hérads dómi Setti-dómarans M. Giſlaſonar, affögdum þañ 15da Mart. 1769, ſvo hañ aldrei komi Sýſlumañi J. Snorraſýni til nockra ſekta edur fiár útláta í nóckurn máta, hvarámóti Settidómarinn M. Giſlaſon betali til Sýſlumanns J. Snorraſonar þá 22 rdli., ſem Løgþingis dómurinn honum uppáleggur. Bjørn Jónsſon er og af þeſſum Rétti frí álitinn fyrir þeim 20 rdlm., ſem hann er dæmdur til Sýſlumanns J. Jakobsſonar ad betala, ſvo ſem þeir hafa aldrei fyrir Løgþingis-réttinum uppáſtefndir edur uppáſtadnir verid. Þær Tremarks bætur, ſem Gudmundur Jónsſon er fyrir Hérads-rétti dæmdur ad betala, falla af ſiálfu ſér, og ſkulu, eptir Løgþingis dómſins innihaldi, ecki koma honum til æru-hneckirs í nockurn máta, ſvo ſem hvorki auſjeſt bevíſad ad Gudmundur hafi nockud ófrjálſt burtflutt edur burtfengid úr Bjarnaſtadagérdis ſterfbúi,

edur þar med órélega høndlad. Fyrir ónaudsynlega innstefníngu til þessa Yfir-réttar, betalar Bjørn Jónsson til Sýslumanns J. Snorrasonar 2 rdli. Crón., en til Løgmanns S. Sølvasonar er enginn málskostnadur dæmdur af Byrni, í tilliti til þess, ad Løgþíngis dómurinn, um þad 20 rdla. útlag, sem Løgmadurinn dæmdi Bjørn til ad betala til Sýslumanns J. Jakobssonar, er upphafinn. Setti-dómarinn M. Gíslason betalar í kost og tæríngu til Løgmanns S. Sølvasonar 6 rdli., og til Sýslumanns J. Snorrasonar 4 rdli. Crón., hvad allt skal betalad vera til vidkomenda innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adfør eptir løgum.

*Actum ut supra*

O. Stephánsson.

B. Markússon. M. Olafsson.
J. Arnason. E. Olafsson.
E. Gudmundsson. G. Runólfsson.
J. Eggértsson. J. Jónsson.
S. Sigurdsson. J. Arnórsson.
P. Axelsson.

Anno 1771, þann 19da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mótti í Yfir-rettinum Teitur Olafsson, sem framlagdi Yfir-rettar stefnu, út-tekna af födur hans Olafi Vilhjálmssyni, med hvörri Lögmadur. S. Sölvason stefnist: 1.) Til ad framleggia konúnglegrar Hátignar Allykttun um Citantens aflagdann eid í einni þrætu-sök um raudt hross, millum hans og Jóns Hallssonar. 2.) Til ad forsvara sinn afsagda dóm í málinu næstlidid ár, og þola þar fyrir Yfir-rettarins dóm, samt Jón Hallsson ad þola dóm í málinu, og Lögsagnarinn A. Jónsson ad forsvara sin dómara-verk í sama máli, sem stefnan ljóslega hermir, lesin og merkud lit. A. Var svo upplesinn Hierads og Lögþingis Prófess og dómur í þessari sök, í hvörs slúttníngu þad umþrætta rauda hross er af Lögmanni S. Sölvasyni tildæmt Jóni Hallssyni, sem nefndur dómur, afsagdur þann 13da Júlí 1770, med sér ber; markadur lit. B. Aktor framlagdi innlegg, í hvörju hann fráskirir sakarinnar

samhengi, og uppástendur ad farleikurinn tilbæmist sér; þad lesid og markad lit. C. Mynnlega uppástendur hann, ad ser tilbæmist drjúgur Próses kostnadur. Jón Hallsson framleggur einnig innlegg, í hvøriu hann uppástendur, ad Løgmanns S. Sølvásonar dómur verdi stadfestur og sér tilbæmid Satisfaktión og máls kostnadur; þad lesid og markad lit. D. Løgmadur S. Sølvason uppástendur skriflega, ad hann hafi rett dæmt í málinu, sem hans innlegg þar um nied sér ber; lesid og markad lit. E. Løgsagnarinn A. Jónsson framleggur innlegg, hvar í hann krefst, ad sinn dómur verdi stadfestur, Jón Hallsson til retta settur, og ser tilbæmd Satisfaktión og málskostnadur; þad lesid og markad lit. F. Þar Partarnir qváduſt ecki meira hafa ad framfæra, var af Yfir-rettinum eptirfylgiandi Dómur í málinu afsagdur:

Þad er med skrum og ómótmæl-anlegum vitnum sannad, ad þad um-rætta rauda hross, sé hid sama, er Ó-laf Vilhjálmsson vantadi árid-1766, og þad svo útþryckilega, ad aldur, litur, gángur, mark, hofa-snúníngur og sá grái hár-lockur, er var í tagli þess far-leiks, sem Olafur eptir lýsti, er allt ad finna eckúngis eins á þessu hrossi, hvør-

jum vitnum Jón Hallsson hefir ecki gétad hneckt, enn sídur nockrar medtækilegar mótsannanir framfært, er veiki eignar-rétt Olafs edur hans erfingja á sama, jafnvel þótt Jón hafi göttgjort, ad hann einnig vantadi hross af líkum lit, og med sama aldri og marki, sem hid umþrætta, og hafi þess vegna viljad tileinka sér þad sama. Er þvi Logþíngis dómur Logmanns S. Solvasonar, hvar med Jóni Hallssyni er tildæmdur þessi farleikur, hér med upphafinn, og skal farleikurinn vera hér eptir ómótmælanleg eign Olafs Vilhjálmssonar erfingja, ásamt allt þad af henni hefir tímgást, og sem afqvæmi fylgt, sídan þessi sok kom fyrst í Prósess. Umkostnad fyrir þessu máli frá Logþíngis-réttinum til Yfir-réttarins, betali Logmadur S. Solvason til Olafs Vilhjálmssonar erfingja med 4 rdlm. Crón., innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adfør eptir logum.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| J. Olafsson. | M. Olafsson. |
| S. Sigurdsson. | D. Schéving. |
| G. Runólfsson. | J. Eggértsson. |
| L. Gudmundsson. | P. Axelsson. |
| H. Jakobsson. | J. Jakobsson. |

## NUM. II.

Þann 20ta Júlí mætti í Yfir-rettinnum Sýslumadur J. Jakobsson, uppá Prestsins Jóns Jónssonar vegna, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, undir Stiptamtmanns L. A. Thódals nafni og landsins signeti, dat. 27da Febr. þ. á., med hverri Lögmadur S. Sölvason stefnist ásamt hans Grandskñings-mönnum, ad forsvara þeirra gjörda Aasteds Forretning ad Mödruvöllum í Eyjafirdi; þann 30ta Aug. 1770, og genginn dóm, hvar med svo kalladur Kolbeinshúsa-völlur, er frádæmdur Prestinum Jóni Jónssyni, en tildæmdur Sigurdi Eyríkssyni, sem stefnan framar med ser ber, lesin og merkud lit. A. Adra Yfir-rettar stefnu framlagdi Sýslumadur J. Jakobsson, af 13da sama mánadar, hvar med Lögmadur S. Sölvason stefnist til ad forsvara sína gjörda Aasteds Forretning prima Instantia, og halda Extra-Lögþing í ádurnefndu máli; svo stefnast og einnig Lögmannsins meddóms-menn, ad forsvara þad, ad þeir, á móti Sýslumannsins forbodi, hafi látid sig brúka til þessar

ar forrettingar; stefnan lesin og merkud lit. B. Pridju Yfir-rettar stefnu framlagdi nefndur Sýslumadur af 27 Febr. nærstlidna, med hvørri Løgmadur S. Sølvason stefniſt til ad forsvara alla þá pósta i hans afsagda Extra-løgþingis dómi, er vidkomi Citanten. Einnig stefnist Jón Olafsson, til ad framleggja hans Prókúratorſ Bestalling, og forsvara hans grófu Irrettesættelser móti Sýslumanninum; stefnan lesin og merkud lit. C. Løgmadur S. Sølvason mótmældi, sem Dómurum, Amtmanni O. Stephánssyni, Vísi-løgmanni J. Olafssyni, og Sýslumanni H. Jakobssyni, þeim fyrsta sem tengdum, en hinum bádum skyldum Sýslumanni J. Jakobssyni; hvar uppá fiell Yfir-rettarins Alyktun:

Þar Yfir-rétturinn þeckir ecki þá Anordning í løgum edur Forordningum, er þessi Exeptión Løgmanns S. Sølvasonar kunni vera grundud á; svo virdist ecki heldur naudsynlegt, ad Amtmadur O. Stephánsson og Vísi-løgmadur J. Olafsson viki sin dómara sæti.

Aktor framlagdi Hjerads og Extra-løgþingis Prófessa og dóma í þessu máli, í hvørs sidara slúttningu, afsøgdum á Mødruvøllum i Eyjafird. þann 30ta Aug. 1770, Kolbeinshúsa-vøllurinn er dæmdur ad tilheyra Mødruvøllum, sem nefndur Próses og dómur framar sýnir; lesinn og markadur lit. D. Sýslumadur J.

Ja-

Jakobsson, sem mætir uppá Presisins vegna, framlagdi 3 innlegg undir Presisins nafni, sem er hans Paastand og forsvar í málinu; þau lesin og merkud lit. E, F og G. Sýslumadurinn framlagdi einnig 3 innlegg undir sínu nafni, af 18da húius, til forsvars hans Hierads dómi, med vídara Paastándi, sem þau med ser bera; lesin og merkud litt. H, J og K. Løgmadur S. Sølvason framlagdi líka svo 3 innlegg, til forsvars sínum Extra-løgþingis dómi, og Besvarelse paa Parternes Paastand í þeirra innleggium, einkum Presisins stefnu-søk, hverjum til stadfestu fylgdu 2 Vitnaleidslu-aktar, sá eini tekinn af Sýslumanni J. Jakobssyni þann 13da Mai nærstlidna, á Aunguløstødum, hinn af adjúngeret Sýslumanni V. Jónssyni, þann 10da s. m. ad Saurbæ; þetta allt lesid og markad litt. L, M, N, O og P. Adjúngeret Sýslumadur V. Jónsson framlagdi innlegg af 13da húius, undir nafni Jóns Olafssonar, hvar med Jón vill forsvara sína Prókúratíón og Aktíen fyrir Extra-løgþingis-rettinum; lesid og markad lit. Q. Allir málspartar uppástanda Próseß kostnad, kost og tæríngu, hverr af ødrum, og segduft ecki hafa meira ad framfæra, undir endilegann Yfir-rettar dóm, sem fiell svolátandi:

Þær merkilegustu røksemdir, sem Løgmadur S. Sølvason hefir anført til síns Extra-løgþingis dóms í þessu máli, afsøgdum á Mødruvøllum í Eyjafirdi þann 30ta Aug. 1770, hvar

hvar med sá umþrætti Kolbeinshúsa-vøllur er dæmdur frá jørdunni Skridu, og undan-eignarhaldi Prestsins Jóns Jónssonar, en sem ó-adskiljanleg eign Mødruvalla, og ad tilheyra þeirrar jardar núverandi húsbónda Sigurdi Eyrikssyni og hans erfingjum, edur hvorjum, sem Mødruvelli loglega eignast eptir hann, bestanda einkanlegast í forklárun vitnisburdar Jóns Pálssonar og Benedikts Sigurdssonar, ad þeir viti ecki hvort nefndur vollur hafi legid til Skridu ad eign eda láni, edur hvort heldur hann hafi verid jørdunni eda ábúandanum tillagdur, hvorr vitnisburdur sé svo óvíss, ad þará kunni engin hefd ad grundást; þará-móti hafi onnur tvo vitni, nefnil. Presturinn Hra. Sigurdur Jónsson og Løgréttumadurinn Jón Oddsson, sem álítist fyrir hin skilríkustu vitni í þessari søk, framfært, ad tédur vøllur hafi verid lédur eda leigdur Skridu ábúendum, þaradauki sýni afstada plátsins, ad hann liggi innan Mødruvalla túngards, og eckert sé enn þá framkomid hvar af slúttast kunni, ad nefndur vallar-partur hafi nockurntíma ad gjøf, sølu, edur nockrum ødrum adkomstar titli verid lagdur undir Skridu; en med því þessara sídustu tveggja manna vitni stendur einúngis uppá þad, ad þeir heyrt hafi, þad Kolbeinshúsa-vøllurinn hafi í tíd Løgmanns sál. Magnúsar Bjørnssonar — meir enn fyrir 100 árum — verid lédur og tillagdur Skridu frá Mødruvøllum, hvar á enginn endilegur dómur kann grund-

grundast, hvort þessi optnefndi vollur hafi til-
heyrt þeirri fyrri edur sidari jordu, þá Prest-
urinn seldi Sigurdi þau honum tilheyrandi 38
hundr. í Mødruvøllum, heldur er þvertámóti
sannad med morgum vitnum, einkum Jóni
Pálssyni, Magnúsi Thómássyni, Benedikt
Sigurdssyni, Kristínu Pálsdóttur og fleir-
um odrum, ad Kolbeinshúsa-vøllurinn hafi,
ecki einúngis í full 40 ár, heldur svo lengi, sem
eldstu menn tilvissu, er nockur af þessum vitnum
hafa átt tal vid, legid undir Skridu, sem þeirr-
ar jardar land og eginndómur, og þaradauki
vitnar Jón Pálsson, ad af þessum parti hafi
verid goldin sérskilin landskuld 15 eda 20 áln.
árlega; svo sýlgir hér af, ad þessi vollur má vera
adskilid land frá Mødruvøllum, og ecki ein-
úngis þar af, heldur og af hinu, ad hann ligg-
ur fyrir utan heima- jardarinnar túngard, um-
gyrdtur og afmarkadur, eptir sem þad fyrir Yf-
ir-réttinn framlagda málverk sýnir. Sigurdur
Eyriksson, sem fyri nockrum árum hafdi keypt
42 hundr. í þessarar jardar heimalandi, seck og
eingann hluta þar med úr Kolbeinshúsa-vell-
inum, sem þó endilega hefdi átt ad vera, ef
þessi partur hefdi tilheyrt Mødruvøllum, þá
hann vard egandi meir enn hálfrar jardarinnar.
Þad, sem Sigurdur átti eginlega ad sanna,
hefdi hann viljad ná nockrum løglegum eignar-
rétti yfir þessum optnefnda velli, var: annad-
hvort med kaupbrefi eda skilrikum vitnum ad
sýna og sanna, ad hann hefdi vollinn keypt af
Prest-

Prestinum Jóni Jónssyni; en þar Présturinn, þegar kaupin gjørdust, optar enn einusinni old-úngis undantók vollinn, og affagdi ad láta hann fylgja Mødruvøllum, þar hann ecki væri þeirrar jardar eginndómur, heldur tilheyrdi Skridu, sem med nærverandi tveggja manna eidfestri vitnun og Atteſti er sannnd; svo dæmist rett:

Kolbeinshúsa-vollurinn skal hér eptir sem híngad til vera átølulaus eign Prestsins Jóns Jónssonar og hans erfíngja, en hvørki tilheyra Sigurdi né Mødruvøllum, nema hann eigniſt ad réttum ſølum, gjøf, edur annari løglegri Adkomſt; er því dómur Sýſlumanns J. Jakobssonar ad þeim parti ſtadfeſtur, en Løgmanns S. Sølvaſonar ad øllu leiti upphafinn, hvørjum ecki heldur tilkom ad gjøra neina Extra-Aſteds-Forretning, edur affegja Extraløgþíngis dóm í þeſſu máli, á medan áreidar dómi Sýſlumanns J. Jakobssonar var ecki fyrir hans Rétt løglega innſtefnt, hvørja Løgmanns áreid, ef partarnir hefdu forſómad í tækann tíma ad begéra edur Sýſlumadurinn ad leyfa,

átti

ätti þeim þar til ad haldast af Yfir-dómaranum, hefdi þar til virdst nockur naudsyn. Byrjar því Løgmanni S. Sølvásyni, fyrir þessar sínar dómara adgjørdir, ad betala til Prestsins J. Jónssonar 2 rdli. Crón., og til Sýslumanns J. Jakobssonar eins mikid; svo betalar einnig **Sigurdur Eyríksson** til Prestsins 6 rdli. Crón. í málskostnad, og hans Prókúrator **Jón Olafsson** til Sýslumanns J. **Jakobssonar** fyrir grófar Expressíóner í hans, fyrir Extra-løgþíngis-réttinũ, framløgdu innleggi, 4 rdli. Crón., sem allt sé lukt til vidkomenda iñan nærstkomandi **Michaelis** messu, undir adfør eptir løgum.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| J. Olafsson. | D. Schéving. |
| G. Runólfsson. | J. Arnason. |
| J. Eggértsson. | L. Gudmundsson. |
| P. Axelsson. | J. Jónsson. |
| H. Þorgrímsson. | |

## Núm. III.

Þann 22ann Júlí mætti í Yfir-rettinum Bjørn Jónsson og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 21ta Jan. 1771, med hvørri Løgmadur S. Sølvason er stefndur, til ad forsvara sinn genginn Løgþíngis dóm, þann 17da Júlí 1770, vidvíkiandi Arresti á fiármunum Citantens, gjørdu af Sýslumanni J. Snorrasyni, sem er kiennt vid makt; Sýslumadur J. Snorrason stefnist einnig sama ad forsvara, og Eyríkur Eggertsson Arrests beidnina; svo stefnist og, vegna Próses mátans, Citantens bródir, Gudmundur Jónsson; stefnan lesinn og morkud lit. A. Løgmadur S. Sølvason gjörir Exseptión mót þessari stefnu, vegna ufnamus stefnu frests, þar hún hafi sier ecki verid byrt fyrr enn nærstlidinn 17da Júní, og prótesterar til málsins ad svara edur í því dóm ad lída. Hvar uppá fiell Yfir-rettarins svolátandi Alyktan:

Sú her framlagda Yfir-réttar stefna hefir offeint verid auglýst Løgmanni S. Sølvasyni, eptir NL. 1—4—27, samt þeirri hér í landi vidteknu Praxi, byrjar því Byrni Jónssyni ad nýju løglega ad innstefna þessari søk, vilji hann uppátala Løgmannsins dóm, edur þad af Sýslumanni J. Snorrasyni gjørda Arrest og Seqvestratión. Actum ut supra.

L. A. Thódal.

D.

D. Stephánsson. B. Markússon.
J. Olafsson. M. Olafsson.
S. Sigurdsson. D. Schéving.
G. Runólfsson. J. Eggértsson.
L. Gudmundsson. P. Axelsson.
H. Jakobsson. J. Jakobsson.

## Num. IV.

Sama dag settist Yfir-retturinn á ný, undir Præsidis Amtmanns O. Stephánssonar, í Hra. Stiptamtmanns Thódals forføllum, mætti þá adjúng. Sýslumadur J. Jónsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 23ja Apr. þ. á., med hverri Løgmadur S. Sølvason stefnist ad forsvara sinn afsagda Extra-løgþingis dóm ad Hoft á Høfdaströnd, þann 13da Sept. 1770, med hverjum saka-persónurnar Andres Einarsson og Oddný Jóns-dóttir eru, fyrir framid dulsmál, dæmd ad erfida í Íslands Tukthúsi, hann í 4, en hún í 3 ár, samt þar fyrir ad standa til retta. Sýslumadur J. Snorrason stefnist einnig, ad forsvara sinn, þann 1ta Dec. 1769 afsagda dóm í málinu, samt saka-persónurnar, ad svara til þeirra spurnsmála, sem kunna verda gjørd af Aktóri eda Rettinum, samt ad lída dóm; stefnan lesin og mørkud lit. A. Aktor framlagdi Hjerads og Extra-løgþingis Prófessa og dóma í þessari dulsmáls søk, sá fyrri af 1ta Dec. 1769, med hverjum saka persónurnar Andres

Einarsson og Oddný Jónsdóttir eru dæmd, hann 4, en hún 3 ár til erfidis í Íslands Tukthúsi, hvørt Hjerads-dómur er af Løgmanni S. Sølvasyni, þann 13da Sept. 1770, ǫldúngis stadfestur; Próséssarnir lesnir og markadir lit. B. Aktor framlagdi innlegg af dags dató, sem er hans Paastand og Irettesættelser mót Løgmanns S. Sølvasonar dómi; lesid og markad lit. C. Løgmadur S. Sølvasón framlagdi innlegg af dags dató, til forsvars sínum Extra-løgþíngis dómi; lesid og markad lit. D. Saka-persónurnar, ásamt þeirra Talsmanni, Sýslumanni H. Jakobssyni vóru nálæg í Rettinum, sem uppástód Sagens moderate Behandling, í tilliti til Delinqventanna. Partarnir adspurdir, hvørt meira hefdu fram ad færa? svørudu: nei! var því af Yfir-rettinum í málinu dæmt og ályktad, sem fylgir:

Sú ransókn sem gjørd er í Héradi í dulsmáli saka-persónanna, Andresar Einarssonar og Oddnýjar Jónsdóttur, er svo ófullkomin og óforsvaranleg, ad þar uppá átti hvørki né mátti nockurr endilegur Hérads eda Løgþíngis dómur byggjast edur afsegjast; hvørs vegna Hérads dómurinn af 1ta Dec. 1769, og Extra-løgþíngis dómurinn af 13da Sept. 1770, afsagdir í þessu máli, hér med, sem ógrundadir og óeptirréttanlegir, annulleraft og upphef-

befjast, en søkin heimvísast aptur til fullkomlegs prófs og løglegs ransaks, undir nýjann Hérads dóm, uppá Sýslumañs J. Snorrasonar sterfbúss og Løgmanns S. Sølvasonar kostnad, á þann hátt: ad Løgmanninum byrjar ad svara til Tukthús kassans betalingi, fyrir helming undirholdningar saka-persónanna, frá þeirra komu í Tukthúsid nærstlidinn vetur, eptir þar um gjørandi riktugum reikningi, allt til nærverandi tídar; hann skal og á eginn kostnad flytja þau hédan frá Løgþíngis-stadnum til Hegraness Sýslu, og vera ansvarlegur fyrir þeirra Tilstædeblivelse, þar til þau afhendast í Réttarins og Jústitzens hendur, þá ádurnefnd dulsmáls søk verdur á ný í Héradi undir ransak tekin; en Sýslumanns J. Snorrasonar sterfbú bekosti próf og nýjann Hérads dóm í málinu, samt betali fyrir saka-persónanna undirholdníng þángad til Løgmanns dómur í málinu er ad nýju afsagdur. Til Jústits kassans betali Løgmadur S. Sølvason 4rdli., eptir Tilskipuninni af 16da Nóvembr. 1764 hennar 15 Art., innan nærstkomandi veturnátta, undir adfør eptir løgum. Actum ut supra.

D. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | J. Olafsson. |
| Th. Magnússon. | D. Schéving. |
| G. Runolfsson. | J. Arnason. |
| J. Eggértsson. | L. Gudmundsson. |
| P. Axelsson. | J. Jakobsson. |
| B. Jónsson - | H. Þorgrímsson. |

## Num. V.

Sama Eptirmiddag settist Yfir-retturinn undir Stiptsamtmanns L. A. Thódals Præsidió; mætti þá Sýslumadur P. Axelsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 18da húјus, med hvorri Lögmadur S. Sölvason og Sýslumadur P. Sigurdsson stefnast, til ad forsvara þeirra afsögdu lífláts dóma, yfir sakamanninum Magnúsi Einarssyni af Móra Sýslu, fyrir hans í þridja sinni framid hórdóms brot; einnig stefnist sakamannsins setti Talsmadur, adjúng. Sýslumadur V. Jónsson, ad framfæra hans forsvar fyrir rettinum, og sjálfur sakamadurinn ad lída endilegann Yfir-rettar dóm í málinu; stefnan lesin og mörkud lit. A. Þar næst framlagdi Aktor Hierads og Lögþingis Prósessa og dóma í þessari sök, þann fyrra af 11ta Nóv. 1769, og hinn sídara af 18da Júlí 1770, med hvorjum sakamadurinn Magnús Einarsson er frá lífinu dæmdur, fyrir hans ádur umgetid þridja hórdóms brot; Prósessarnir lesnir og markadir lit. B. Sá setti Aktor og Sýslumadur H. Þorgrímso-

Grímsson uppástanda: ad Hierads og Løgþíngis dómarnir verdi stadfestir, en Talsmadurinn, ad þeir verdi linadir, þar óbevísad se, hvørt kona Magnúsar hafi hann aptur tekid eptir hans annad hórdóms brot, er hann stórum efar, þar þau hafi aldrei sídan sókt sæng saman, en hún karlæg og ómagi, og verid þess vegna ad álita, sem fyrir utan hjónaband, nú 76 ára gømul. Sakamadurinn Magnús, nú 78 ára, og mjøg hrørlegur, játar sig átt hafa 3 børn í hórdómi, med lidugum persónum; en aldrei segist hann hafa sókt sæng med konu sinni í millum þess hann átti þad annad og þridja barn framhjá henni; vonar því, ad þetta sídasta brot verdi ecki í hardasta máta straffad, heldur dómarnir, annadhvørt af þessum Retti, ellegar konúnglegri Hátign, linadir. Meira framfærdu ecki Partarnir; var því af Yfir-rettinum svolátandi Alyktan afsøgd:

Yfir-rétturinn uppsetur ad afsegja endilegann dóm í þessu máli, til næsta árs, þar sá, yfir sakamanninum, gengni Hérads dómur, fyrir hans annad hórdóms brot, fylgir ecki Hérads Prófessinum, sem þó hefdi átt ad vera; byrjar því Sýslumanninum í Mýra Sýslu þann sama løgformlega ad extradéra; svo álítst og naudsynlegt, ad þíngvitni sé tekid um sakamannsins aldur, og hingad til fært líf og lifnad, eptir Til-

skipuninni af 21ta Maji 1751, er ásamt þeim reqvirerada dómi, á fyrir landsins Yfir-rétt ad framleggjast, hefir Løgmadurinn S. Sølvason, Sýslumadurinn Þ. Sigurdsson og saka-madurinn Magnús Einarsson hér þá ad mæta, og endilegann Yfir-réttarins dóm í málinu heyra. Á medan skal saka-madurinn vera í forsvaranlegu vardhaldi Sýslumannsins Þ. Sigurdssonar, á Tukthúss kassans kostnad.

Actum ut supra.

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| J. Olafsson. | Th. Magnússon. |
| O. Schéving. | G. Runólfsson. |
| J. Arnason. | J. Eggértsson. |
| L. Gudmundsson. | J. Jakobsson. |
| J. Jónsson. | |



Annó 1772, þann 22ann Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirskrifudum Asséssórum.

## Num. I.

Mætti í Yfir-rettinum Hans Jörgensen Klingenberg, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 6ta Sept. f. á., med hverri Lögmadur B. Markússon og Sýslumadur J. Eggertsson stefnast, til ad forsvara þeirra, í seinni, þann 11ta Júní 1770 og 13da Júlí 1771, afsögdu Hjerads og Lögþingis dóma, í því þrætumáli er Klingenberg hefir reist, út af jördunni Túngu í Andakýl, frá hann vill ná til Hvanneyrar kirkju. Med sönnu sier ... tókust og Þorbjörn Bjarnason, til ad forsvara sína Aktíón í sökinni, frá fyrsta til sídasta, móti nefndri kirkju, med vídara, sem stefnan med sier ber, lesin og merkud lit. A. Því næst var upplesinn Lögþingis Prófess af 12ta Júlí 1768, og afsagdur Hjerads dómur í þessu máli, þann 30ta Sept. 1767, hvar med jördin Túnga er dæmd ad vera bónda-eign, eins vel hjer eptir, sem hingad til, hverjum Hjerads dómi er af Lögþingis-rettinum fráfallid, þann 10da Júlí 1769, og sökinni aptur heimvísad til lögslegri undirbúnings, og frekari vitna afheyrslu; Prófessinn var áteiknadur lit. B. Annar Lögþingis-akt í þessu máli, byrjadur þann 6ta Júlí 1771, var framlagdur, í hvörs slúttningu dæmt er: ad Túnga í Andakýl skuli hjer eptir sem hingad til vera átölulaus bónda-eign, en Klingenberg dæmdur í 8rdla bætur, og Prófess kostnad til Hjeradsdómarans og Saksóknarans; lesinn og markadur lit. C. Kling-

enberg framlagdi innlegg af 3ja húús, hvar í hann framfærir sínar Invektiver móti Lögmanns B. Markússonar og Sýslumanns J. Eggertssonar afsögdum Hierads- og Lögþíngis-dómum, af 11ta Júní 1770 og 13da Júlí 1771; innleggid uppleſid og áteiknad lit. D. Lögmadur B. Markússon, sem mætir sín eginn vegna, framlagdi innlegg af dags dató, til forsvars sínum afsagda Lögþíngis dómi í þessari sök, sem þad vídar med ser ber, lesid og markad lit. E. Uppá Þorbjörns Bjarnasonar vegna, mætir Sýslumadur J. Jónsson, sem einníg framlagdi innlegg af dags dató, hvar med hann framfærir Þorbjarnar Forsvar og Paastand í málinu, uppleſid og áteiknad lit. F. Klingenberg prótesterar á móti Sýslumanni J. Jónssyni, þar hann se ecki stefndur til ad antaka Prókúratión í málinu, en uppástendur, sín vitni verdi, sem gyld og órœk, antekin, svo lengi þau sen ecki lögfeld, og prótesterar enn framar allar ólöglegar Iretteſættelser, refererandi sig til sinna ádur framfærdu Bevísínga og Paastands. Vídara sögdust málspartarnir ecki hafa ad framfæra í sókn edur vörn, hvørs vegna málid var til endilegs dóms upptekid.

## Num. II.

Þann 24da Júlí, ad Yfir-rettinum settum, var í máli H. J. Klingenbergs, afsagdur eptirfylgjandi dómur:

Þad fyrsta, sem Citanten Hans Jørgensen Klingenberg hefir látid gefa sér Anledning

til að færa þenna Próseß, er, að Hra. Biskup F. Jónsson hefir í sinni Visitatíu yfir Hvanneyrar kirkju, þann 17da Sept. 1759, látið innfæra í kirkju-bókina: að Hvanneyrar kirkja ætti, eptir Vilkins máldaga, Túngu, hvar um, til frekari upplýsingar, Klingenberg hefir ecki einúngis fengið af Biskupinum verificerada Afskrift af áðurgreindum Vilchins máldaga, dat. 1397, heldur og einnig af máldaga Biskups Gísla af 1575, sem hvorutveggi eigna kirkjunni á Hvanneyri, sá fyrri 12 Hundrada land, er heiti i Túngu, en sá síðari: Túngu 12 Hundruð. Afskriftin hér af, er þann 15da Júlí 1767 af Amtmanni O. Stephánssyni, uppá Stiptamtmannsins vegna, og Biskupinum F. Jónssyni, með tilteknum geistlegum og verdslegum kóngslegum Embættis-mönnum, konfererud med Original máldaga bókunum, og fundin þar med samhljóða, svo þetta Extrakt, sem síðar hefir verið framlagt fyrir Sýslumanns J. Eggertssonar haldinn Hérads-rétt á Heggstöðum, þann 14da Sept. 1767, kynni í öllum sínum greinum, ordnm og atriðum álítast fyrir gyldt og gott og eptirréttanlegt, hvar sem framkæmi. Þetta máldaganna orda-tiltæki: að Hvanneyrar kirkja ætti 12 Hundrada land, er heitir í Túngu, edur Túngu 12 Hundruð, hefir þá Klingenberg, eptir fyrrsögdu, endilega meint gæfi sér, sem Próprietaríó jardarinnar Hvanneyrar, fullkominn rétt, kirkjunnar vegna, til þeirra

af

af honum sídan gjördu málssóknar, og þetta umþrætta land, mætti endilega vera jördin Túnga í Andakýl, þar hún lægi innan Hvanneyrar kirkjusóknar, og væri allteins 12 Hundrud ad dýrleika, sem þad land edur jörd, sem máldagarnir umtala, hvörja sína meiníngu hann hefir enn framar viljad styrkja, med einu, af Biskupi J. Jónssyni verifiserudu Extrakte af 8ta gjördum Visitatium Biskups B. Sveinssonar, af 1642, 1646, 1649, 1652, 1658, 1661, 1666, og 1670, sem allar géta þess, ad Hvanneyrar kirkja misst hafi Túngu 12 Hundrud, og tilhalda því þá verandi eignar-manni Hvanneyrar, Páli Gíslasyni, án forsómunar, med lögum og Rétti, hana til kirkjunnar aptur ad kalla og innvinna. Svo styrkir og Klingenberg sína Prætentión til jardarinnar Túngu í Andakýl, á Páls Gíslasonar framlagda bréfi, med 2ur hángandi innsiglum, dat. 1552 ad Indridastødum, er finnst í Visitatiunni af 15da Aug. 1661, þá Einar Eiríksson galdt Magnúsi Presti í sátt og sama, jardirnar Qvíkstadi og Túngu, er sídan hefir haldin verid bónda eign, og verid í hesd og haldi bænda, hvør Túnga hann víst meinar sé sú optnefnd umþrætta Túnga í Andakýl. Endilega hefir Klingenberg látid afheyra nockur vitni, sem Hérads Prófessarnir med sér færa, serdeilis Gísla Ofeigsson, Magnús Olafsson, Jón Þórhallason, Jón Steinólfsson, Gísla Gunnarsson, Jón Þorvardsson og Bjørn Gíslason, er med útgéfnum Attest-

testum 1766, og eptir þeirri forsiu Examinatión fyrir Hérads-rètti 1767, játa sig heyrt og sied hafa, ad Túnga í Andakýl hafi verid mótmælislaus eign Hvanneyrar kirkju, hvert vitnaña Udsigende, samanborid vid Biskupanna Vilchins og Gísla máldaga, samt Biskups Brynjólfs Visitatíur, og afhending Einars Eyríkssonar á Túngu til P. estsins Sira Magnúsar, Klingenberg hefir uppástadid mætti álitast fyrir ómótmælanlegar rok semdir, ad Túnga í Andakýl hafi verid gomul eign Hvanneyrar kirkju, og egi henni því fortakslaust og án allrar hjáhlidrunar ad tildæmast. En med því hvorki Vilchins nè Gísla Biskups máldagi tileinkar Hvanneyrar kirkju Túngu í Andakýl, heldur einúngis mikid indeterminate eitthvort 12 hundradaland, sem heitir í Túngu, edur Túngu 12 Hundrud, sem enginn kann af þeim ad ráda hvar liggja muni, hvort heldur innan Hérads edur utan, innan kirkju-sóknar edur fyrir utan hana, hvort þad sè bygd jord edur eydiland, þó þetta hid sídara sýnist þó allra líklegast, þar þessi 12 hundrud kallast land en ecki jørd, eins og hinar adrar bygdu jardir kirkjunnar, sem Gísla máldagi umgétur; svo géfa máldagarnir engann grun, enn sídur nockra vissu eda bevísing um, ad sú bygda jord, Túnga í Andakýl hafi nockurntíma fyrr edur sídar undir Hvanneyrar kirkju legid; ecki gjørir þad heldur Verifikatión Biskups og Amtmanns, samt tiltekinna kóngl. embættismanna, er uppá Extrakt af máldøgunum

um skrifud er, heldur segir hún einúngis: ad út-skriftin sé þeim samhljóda, og þess vegna eins gyld og góð og máldagarnir siálfir, hvar sem framkomi; ecki bréf Einars Eyrikssonar af 1552, med hverju hann géldur Magnúsi Presti jardirnar Qvikstadi og Túngu, því enginn veit hvada Túnga þetta verid hefir, þar marg-ar jardir og landsplátss heita sama nafni, er liggja bædi nær og fiær á vid og dreif um allt landid, og endilega hefdi Biskup Gísli gétid þess í sínum máldaga 1575, hefdi þessi Túnga verid Hvanneyrar kirkju eign og burtsengin af Ein-ari 1552, edur 23 árum ádur enn Biskupinn visiteradi og samanskrifadi sína máldaga-bók, hvor, nefnil. máldaga-bókin af 1575 einnig segir: ad kirkjan egi enn þá Túngu 12 hundrud, en í Registri, er sami Biskup hefir gjort yfir Hvañ-eyrar kirkju jardir, finnst engin bygd jord nefnd undir Túngu nafni, svo kirkjan átti þá enga svoddan jord, heldur hefir þetta stycki verid þá tíd, eins og þad meinast enn þá, eitt eydiland, en hvar helst liggjandi, vissi né veit enginn. En-dilega bevísast med Biskups Brynjólfs vísita-tíum frá 1642 til 1670, ad enginn vissi hvar sú Túnga væri, er Hvanneyrar kirkja skyldi átt hafa, þótt á þessum 28 árum hafi bædi af siálfum Biskupinum og Hvanneyrar eganda, Páli Gíslasyni, eptir hans tilsogn, verid eptir-grenslast, hvar þetta optnefnda Túngu-land mundi liggja, og sokinni hafi tvisvar fyrir Hér-ads-rétti, og í þridja sinni fyrir Logþingis-rétti

al-

alvarleqa framfylgt verit. Þarámóti bevísast med þessa Bisfups Visitatiu af 1642, ad Túnga í Andakýl var þá tíd bónda-eign, en frá Bisfups Gísla máldaga 1575, til þess Bisfup Brynjólfur vísiteradi 1642, eru ecki nema 67 ár, og hefdi verid létt fyrir Bisfupinn ad uppfinna, hefdi nockur kirkju-jörd Hvanneyrar, á þessum stutta tíma, edur í þá lifandi manna tíd, burt-seld verid, svo þetta er enn þá ein Bevísing, ad Hvanneyrar kirkja hefir ecki kunnad ega Túngu í Andakýl 1552 edur 1575, þar hvörki vissi þad Bisfup Gísli né Bisfup Brynjólfur. Enn framar segir máldagi Bisfups Gísla: ad kirkjan á Hvanneyri egi 20 kúgyldi, er henni enn þá fylgja; skyldi nú kirkjan þar ad auki nockurntíma hafa átt Túngu í Andakýl, med 4 kúgyldum, yrdi kúgylda-talan 4 fleiri enn vera á, sem allt sýnir útþryckilega, ad Túnga í Andakýl og hennar kúgyldi, sem Klingenberg nú prætenderar, hefir í Bisfups Gísla tíd ecki kunnad vera Hvanneyrar kirkju eign.

Hvad þeirra af Klingenberg innstefndu vitna framburdi vidvíkur, þá er hann mikid ó-stödugur og ó-beptirréttanlegur; því fyrst hefir hann látid mörg þeirra útgefa sér skrifleg Attest 1766 um þad, er þau sídan vitna skyldu, en af einu þeirra, Jóni Þorvardssyni, hefir hann sjálfur eid tekid á þess heimili Kjaranstödum, þann 12ta Sept. 1767, hin önnur vitnin hafa þann 14da Sept. s. á. vitnad, ad sjed og heyrt hafi, þad Túnga í Andakýl, 12 hundr ad

dyrleika, hafi heyrt Hvanneyrar kirkju til, svo sem það fyrsta vitnið Gísli Olafsson, skír-skotar til Prestsins á Qvennabrekku Hanneſar Bjørnssonar, er honum skyldi saat hafa, að Hvanneyrar kirkja hefði átt Túngu í Andakýl, hvorju Presturinn hefir skriflega, þann 1ta Apr. 1768, og aptur með eiði, þann 21ta Október. 1769, framsendum fyrir Réttinn að Hegg-stødum, þann 31ta s. m. og árs, eldúngis ſtá-geugið. Þetta vitni og ønnur fleiri, segjast hafa sieð hjá sjálfum Klingenberg, útskrift af Bisk-ups Brynjólfs Visitatiu, er hann í hondum hast hafi, sem eigni Hvanneyrar kirkju opt-nefnda Túngu í Andakýl, hvarámóti sjálfar Visitatiurnar vitni bera, og er því vitnanna framburður þar í óriktugur, eður og þau hafa sieð hjá Klingenberg óriktuga kopíu af Bisk-upsins Visitatium; yfir hofuð hafa flestøll þau af Klingenberg færðu vitni erklærað fyrir Rétti, þann 30ta Október. 1769, að þau ekk-ert viti um eignar-rétt Hvanneyrar kirkju yfir jørðunni Túngu í Andakýl, sem ecki kann heldur að vera, þar enginn vissi til þessa 1642, eður fyrir 130 árum, hvorki Biskup Brynjólf-ur, Héraðs dómarinn eður Løgmenn og Løg-réttan 1659, í hvorri skírir menn úr øllum sýsl-um á landinu vóru þá samankomnir, hvar fyr-ir Løgþingis-rétturinn, þann 1ta Júlí s. á., gjør-ir Pál Gíslason, eignar-mann jarðarinnar Hvanneyrar, assakaðann, þótt hann sæki ecki þá jørð Túngu, sem hann viti ecki kirkjunnar eign

eign vera, edur hvar hún liggi, því það greini ecki máldagar, hverja Logþingis-réttar ályktun Páll hefir framvísað Biskupi Brynjólfi Sveins-syni í hans Visitatióne, þann 18da Aug. 1661, og hefir því sami Biskup, í sinni seinustu Visi-tatíu Hvanneyrar kirkju, þann 26ta Maji 1670, einnig sjálfur ályktað Pál vitalausann, þó við þessu máli ecki framar hrærdi.

Þar ed nú Citanten hefir engin eignar-skjöl Hvanneyrar kirkju, fyrir jordunni Túngu í Andakýl, enn þá kunnad framvísa, ecki af Biskups Vilchins edur Gísla máldøgum 1397 og 1575, edur afhendíngu Einars Eiríksson-ar 1552 kirkjunnar eignar-rétt á þessari jordu heldur legitimera, og allra síst med þeim færdu vitnum nockra hennar løglega adkomst þar til kunnad bevísa; svo, eptir þessum kríngumstæd-um, dæmist rétt:

Jordin Túnga í Andakýl 12 hundr. ad dýrleika, sem bevísanlega hefir ecki legid undir Hvanneyrar kirkju í næstu 220 ár, og aldrei nockurn tíma, þad menn tilvita, heldur ætíd og æfinlega verid vel tilkomin bænda eign, kann ecki frádæmast sínum núverandi eignarmanni, sem hefir þar fyrir justum Titulum; heldur skal hún, eptir þeim í málinu

gengnu Hérads og Løgþíngis dómum, sem hér med eru stadfestir, vera hans átolulaus eign og eginndómur, og þeirra, er jardarinnar ad løglegum erfdum, sølu edur gjøf framvegis egendur verda. Klingenberg, sem heldur hefir viljad færa hér um ónaudsynlegann Prófess, og þó eckért kunnad bevísa sinni Prætentión til styrkíngar, enn rétta sig eptir Amtmannanna, uppá Stiptamtmannsins vegna, og vidkomandi Biskups Ervagtning og áliti í þessu máli, sem þó eru þeir efstu Inspektóris kirknanna hér á landi, hvar med vidkomendum er aukinn stór skadi, mæda og kostnadur, betali, fyrir utan þær í Løgþíngis dóminum honum á hendur søgdu bætur, til Løgmanns B. Markússonar 4 rdli. Crón., til Sýslumanns J. Eggértssonar 3 rdli., og Þorbjarnar Bjarnasonar 2 rdli., samt fyrir ósæmileg ord og Irettesættelser undir málssókninni 1 rdl. til Jústíts kassans, sem allt sé betalad innan nærstkomandi Michaelis

elis messu, undir adför og Exsekútíon ad lögum. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Sølvason. |
| M. Olafsson. | O. Schéving. |
| M. Kétilsson. | L. Gudmundsson. |
| G. Runólfsson. | V. Schéving. |
| S. Finnsson. | H. Þorgrímsson. |
| A. Jónsson. | |

## Num. III.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum adjúngeret Sýslumadur í Mýra Sýslu, H. Þorgrímsson, í fylgi af þeim í fyrra, af Yfir-rettinum afságda heimvísunar dómi, yfir saka-manninum Magnúsi Einarssyni, og framlagdi þau þar reqvírerudu, til sakarinnar frekari upplýsingar þienandi Dókúment, nefnilega: 1.) Hierads dóm, genginn ad Hjardarholti þann 15da Aug. 1766, yfir Magnúsi Einarssyni, fyrir hans annad hórdóms brot; lesinn og markadur lit. A. 2.) Þingsvitni, tekid ad Hjardarholti þann 10da Júní næstlidna, um sakamannsins aldur og undanfarid líferni; lesid og markad lit. B. 3.) Prestsins Hrá. Kristjáns Jóhannssonar, og tveggia dánumanna vitnisburdi um saka-mannsins løgleg forfoll, sokum veikleika, ad mæta, hier fyrir Yfir-rettinum; lesnir og markadir

lit. C. D. Var síđan ađ nýju upplesinn Hjerads og Løgþíngs Próseß og dómur í málinu, í hvørs slúttníngu sakamađurinn Magnús Einarsson, er, fyrir hans þridja hórdóms brot, frá lífinu dæmdur; lesinn og markađur lit. E. Sýslumađur H. Þorgrímsson, sem Aktor, uppástendur ađ Hjerads og Løgþíngis dómarnir verdi stađfestir; en Talsmađurinn, Sýslumađur G. Runólfsson, ađ þeir verdi linađir, þar ósbevísađ se, ađ kona Magnúsar hafi hann aptur tekiđ, eptir hans annađ hórdóms brot; þaradanki hafi hún lengi veriđ karlæg og ómagi. Hann uppástendur og, ađ takast megi í Konsíderatión sjálfs sakamannsins hruma elli og veikleiki. Meira qváđust Partarnir ecki hafa ađ framfæra, undir endilegann Yfir-rettar dóm, er þannig var afsagdur:

Sá af Løgmanni S. Solvasyni, þann 18da Júlí 1770, afsagdi Løgþíngis dómur í þessu máli, međ hvørjum Magnús Einarsson er dæmdur ađ missa sitt høfud, fyrir hans međgengiđ þridja hórdóms brot, er hér međ, eins og Hérads dómur Sýslumannsins Þ. Sigurdssonar, af 11ta Nóv. 1769, af Yfir-réttinum stađfestur, og skal Exekútíon eptir sømu dómum løgformlega framfara fyrir tilhlutun Sýslumansins

í Mýra Sýslu; En þessi sök á þó áður allraundirgéfnast að refererast konúnglegri Hátign, eptir Tilskipuninni af 28da Maji 1735, og Kóngs-bréfinu af 22rum Apr. 1758.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

O. Stephánsson. B. Markússon.
M. Olafsson. O. Schéving.
M. Kétilsson. L. Güdmundsson.
J. Eggértsson. V. Schéving.
S. Finnsson. J. Jónsson.
A. Jónsson.

## NUM. IV.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumaður J. Helgason, sem settur Aktor í dulsmáls sök Þóru Einarsdóttur, og framlagði Yfir-rettar stefnu af 20ta Maí nærstliðna, með hvørri Sýslumaðurinn H. Wíum og Lögmaður S. Sölvason stefnast, til að forsvara þeirra í málinu afsögðu Hjeraðs og Extra-lögþíngis dóma; einnig stefnist saka-konan Þóra Einarsdóttir að mæta og framfæra sitt forsvar; stefnan lesin og mörkuð lit. A. Því nærst framlagði Sýslumaður J. Helgason Hjeraðs og Extra-lögþíngis Prósessa og dóma af

12ta Októbr. 1770 og 25ta Sept. 1771, affagda í þessu máli, í hvørra slúttníngu saka-konan er dæmd til ad klýpast 5sinnum frá giørnings- til Rettar-stadarins, samt hennar hønd og høfud afhøggvast og á stjaka uppsetjast; lesnir og markadir lit. B. Aktor uppástendur: ad Hjerads og Extra-løgþingis dómarnir verdi stadfestir. Saka-konunnar Talsmadur, Løgsagnarinn A. Jónsson framlagdi innlegg af dags dató, hvar med hann útfærir hennar forsvar og afbatanir í málinu; lesid og markad lit C. Saka-konan af Yfir-rettinum yfirheyrd, játar allt hid sama, sem hún fyrir Hjerads og Extra-løgþingis-rettinum medkjennt hefir. Framar adspurd: hvørt hún hafi hafi nockurn Talsmann fyrir Hjerads og Extra-løgþingis-rettunum? neitar, ad þad hafi verid; hvørs vegna svoddan Alyktan, af Yfir-rettinum, í þessu máli var afsøgd:

Þessi søk, í hvørri saka-konunni Þóru Einarsdóttir hefir ecki verid settur nockurr Talsmadur, fyrir þeim høldnu Hjerads- og Extra-løgþingis-rettum, edur finnst hid minnsta véra framkomid til forsvars í hennar dulsmáli; paradauki hefir engin yfirheyrsla framfarid, um hennar, ad undanførnu, fært líf og lifnad, edur heimilis-vitni afheyrd um hennar ásigkomulag, hegdun og breytni um medgaungu tímann, sem þó allt

allt átti ad ske, ádur enn nockurr endilegur dómur kunni ad affegjast, kann hêr ecki ad fyritakast; heldur er hêr med afvísad til løglegri undirbúnings í Hêradi, undir endileg-ann Hêrads og Løgþingis dóm ad nýju, hvørja Sýslumadurinn í austur Múla Sýslu og Løgmadur S. Sølvason, eptir hafandi Authorisation, skulu á eginn kostnad hafa svo tímanlega affagda, ad þessari søk kunni løgformlega ad verda innstefnt fyrir nærsthaldandi landsins Yfir-rêtt.

Actum ut supra.

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | M. Olafsson. |
| S. Schéving. | M. Ketilsson. |
| L. Gudmundsson. | V. Schéving. |
| J. Eggértsson. | S. Finnsson. |
| J. Jónsson. | H. Þorgrímsson. |

Ad þessi Yfir-rêttar Acta seu rêtt útskrifud af Yfir-rêttar Þing-bókinni, fyrir þessi framanskrifudu 5 âr, og henni samhljóda, vitnar

B. Stephensen.



